ra epter þa Framlidnu / epter þui sem Romaborgar Kirkia bydur + skipar. Og af soddan Tilfelle er Euangelium a vorū Dögum vpp komed. Þar var eiñ Mwkur af Pauans Alfu vtsendur j Þyskaland hañ predikade so/ad huör hellst sem villde leysa wr hreinsunar Ellde Sal Födurs siñs / eda Modur sinnar/eda annara Na unga / sa skyllde giefa Peninga / Salum til Endurlausnar/Og jafnsnart/sem Peningureñ fielle j Kisteleñ / og giæfe Kling af sier(eda hliod)Jafnsnart fære Saleñ wr hreinsunar Ellldenum vpp j Himerijke Þesse Lærdomur er hiñ sierlegaste Grund vóllur/ huar vppa allur Pauadomureñ er bygdur / Og vid þennañ hreinsunar Elld hafa þeir Pauadomsins Biskupar Cardinalar/Abotar/ Mwkar/og Prestar vel vermt sig og bakad/og ærlega med þssu mote/ ovmrædelegu peninga giallde ad sier safnad.

Enn j giegn öllu þessu/ þa er þ vitanda/Ad soddañ Lærdomur er Lygd og Suik/og alleinasta vpp diktadur til þess og þar fyrer/ ad locka þar med Fie og Peninga af Mönnum/ og ad sier ad draga/

 ga/

Ga/ allrar Verralldar Gotz + Audæfe:
Beuijsingar til þessa Mals
eru þessar?

J fyrstu/ er ecke ad finna nöckurn Bokstaf/ nöckurt Ord j allre Bibliuñe vm hreinsunar Ellden/ huar hellst ad talad verdur vm Dauda + Afgang þeirra Truudu og Vantruudu. Jacob j sinne Banalegu giörde sitt Testamentum/ + Baud Joseph vm/ huörneñ hñ villde læta fara med siñ Lijkama/ epter sinn Dauda/ Gene. 49. So og siñast hia ödrum Forfedrum bæde sorgar Ord/ og Harmakuæde edur Lijkpredikaner/ Enn alldrei nöckurstadar verd ur þar gieted hreinsunar Ellds/ eda Sælumessna fyrer þeim Framlidnu. Fyrer Moysen hefur Gud sett og skickad Fornfæringar marghættadar/ enn alldrei nöckrar fyrer þm̃ Framlidnu. Hia Spamöñ önum eru margar aluarlegar Hootaner/ margar huggunarsamar Lofaner + fyrer heit/ Þar koma + fram̃ + eru eirneñ j lios lætner/ marger marger Leyndardomar/ eñ alldrei kiemur þar eitt Ord fram̃ vm hreinsunar Ellden. Þeir kieña vm Bænena huörneñ og huar vm Meñ eiga ad bidia/
enn

enn alldrei fyrer þeim Framlidnu / j hrein sunar Ellde. S. Pall talar margt og myked vm Kiærleiksins Verk / huad huør christenn Madur sie skylldugur ødrum ad veita / hann talar + vm Huggun epter þa Framlidnu / enn ecke gietur hann med einu Orde þeirra sem eru j hreinsunar Ellde.

S. Johañes hefur j sinne Apocalipsi miøg storar Sioner og Openberaner / eñ ecke eitt Ord vm hreinsunar Elldeñ. Snøgt ad seigia. Papistar hliota sialfer ad jata + medganga / ad af Guds Orde giete þeir ecke beuijsad hreinsunar Elldenn. Nu er þetta Axioma / edr Grein / Høfud REGLA j Christelegre Kirkiu / ad man Guds Ords / og þyrer vtan þad / þa eiga Menn huørke ad heyra nie medtaka nockurn Lærdom / Act. 20. Einskis hef eg duled ydur / þad nytsamlegt er / so eg hafe ecke kuñgiort ydur þad. Jtm / Gal. 1. Cap. Ef nockur kieñer ydur annad Euangelium / eñ þad þier hafed medteked / og þo þad være Eingell af Himne / þa sie hañ Bøluadur.

J annañ mata. Þa er þesse Lærdo-

mur hvert a mote Guds Orde/ Þad vijs-
sar oss ecke nema til tueggia Stada/ þar
framliðenna Manna Sæler eru/ sem er
annad huórt eilijf Sæluhialp/ellegar ei-
lijf Fyrerdæmning/Marc. 16. Huór hañ
truer og verdur Skijrdur/sa er Sæluhol-
pen/Enn huór ecke truer/sa verdur fyrer
dæmdur. Joh. 3. Huór hann truer a
Sonen/sa hefur eilijft Lijf. Huór hann
ecke truer/sa mun ecke sia Lijfed. Item/
Guds Ord kienner/ad Sæler þeirra truu-
du(sin fyrr er sagt)kome strax til eilijfrar
Sæluhialpar/og þurfa ecke ad lijda adr
fyrre nóckra Pijnu j Heluijte/eda Hreinsu
nar Ellde. Joh. 5. Þar koma ecke fyrer
Dom/ helldur briotast þar j giegnum
Daudan/ jnn j eilijft Lijf. Rom. 8. Þar
er eckert Fordæmanlegt a þeim sem eru j
Christo Jesu: Joh. 8. Þær munu ecke sia
Daudan eilijfliga. Luc. 2. Drotten læt
nu þiñ Þion fara j Fride/so sem þu hefr
sagt. Apoca. 14. Sæler eru þeir Dau-
du sem andast j Drottne/hiedan af. Sa-
pien. 3. Og eingen Kvól mun koma vid
þær Psalm. 31: J þijnar Hendur bifala
eg minn Anda. 2. Timoth. 4. Mier er
fyrer

fyrer ótlud Korona Riettlætesins/ecke alleinasta mier helldur og eirnen óllum þeim/ sem elska Tilkomu Herrans Christi. Hier nefner S. Páll lioslega/ecke alleinasta sig og adra Heilaga Postula og Pijslar votta/helldur alla þa sem trua a Jesum So talar og S. Petr til allra Kristenna Manna/Bifaled ydar Sæler ydrum trua Skapara/1. Pet. 4. Og til Ræningians a Krossenum seiger Christur. Sannlega seige eg þier/j Dag skalltu vera med mier j Paradijs. Hefde huer Syndug Madur orded fyrst ad hreinsast j skyrslu Ellde þa hefde Ræninganum ecke leiged þar minst a/sa alla synaæfe hafde ecke giórt nockud gott/helldur var hladen m3 Syndum og Glæpum/Enn Christur vijsar hónum ecke j Skirslu Elld/ helldur j Paradijs. Hañ seiger/j Dag/+ leggur þar vid Dyran Eid/Sannlega seige eg þier

J þridia máta/horfer þesse Lærdomur vm Hreinsunar Ellden/til storrar Minkunar og Smánar þui Heilaga Dyrmæta Blódenu Christi/Hueriu alleina heyrer su Dyrd Æra og Kraptur/ ad þad hreinse oss af Syndónum/ eñ ecke hreinsunar Elldurenn

unar Elldenum/ 1. Johañ. 1: Blodod Jesu Christi pad hreinsar oss af öllum vorum Syndum/ 1. Pet. 1. Vited/ ad pier erud ecke med forgeingelegum Hlutum/Gulle eda Silfre endurleyster/ helldur med dyrmætu Blode Christi / þess Saklausa og Flecklausa Lambs/Apoc. 7: Cap. Þeir hafa þueiged sijn Klæde j Lambsins Blode/Ecke stendr þar/j hreinsunar Ellde. Og fyrer Blodod Christi, ver dur oss ecke alleinasta Synd + Sekt/helldur og eirneñ Straff + Refsing Syndanna Culpa & Pœna kuitt giefenn/ So ad ecke er Þörf ad vier giörum framar meir nöckra Boot fyrer nöckra Synd/ad bitala fyrer hana med vorum sialfs Verkum/ Helldur er hañ fyrer oss ordeñ ein Bölvan vppa þad/ ad vier fyrer hañ yrdum med öllu fra Bölvaneñe leyster/Gal. 3. Refsingeñ liggur a hönum/ so ad vier hefdum Frid/ Esa. 53. Þa sa Herrann aumur a þeim Þion/ liet hañ lausañ/og gaf hönum vpp alla Skulldena/ Matth. 18.

Enn þad/ad Gud j þessu Lijfe leggur samt stundlegt Straff vppa sijna/epter þad þeir hafa jdrast og feinged fyrergiefn-

giefning Syndaña/ ſo ſem ſia ma a Dæme Dauids/ 2. Reg. 12. ✝ 24. Þa er þ ſama ecke Boot nie Bitalingur fyrer Syndernar/ Helldur Miñing/ Hugleiding vmliðeña Synda/ og að Menn læra þar af að þeckia Guds Reiðe/ og að vakta ſig framueigis fyrer Syndonum: Audrum ſetur og Gud þad ſama til eins Epterdæmis/ ſo þeir ſkode ✝ ſpeigle ſig þar wt j/ og hyge/ Ef þetta ſkiedur við þad græna Tried/ huad vill þa verda af þui þur ra? Item/ Domur Drottins tekur til a hans Hwſe/ Enn ef hann tekur fyrſt til a þeim ſem Drottins eru/ huŏr mun þa verda Endalok þrra ſem Euangelio Guds ecke trua? Og ef ſa Riettlæte verdur naumlega Sæluholpeñ/ huar vill þa hiñ Ogudlege og ſa Syndoge bliyfa? 1. Pet: 4. Cap.

J fiorda mata/ þa giörer þeſſe Papiſka Lærdomur ſo ſem Spott ✝ Gys að aluarlegum Guds Ognunar Hootonum ✝ hans Dome/ vm Heluiſte og eiliyfa Fyrerdæmning/ eins og þ være ecke nema Barna Hræda/ ✝ Kiellinga Skraf/ til Hræðſlu og Skielfingar/ med þui að ſo er aud velldlegt

uelldlegt ad komast burt wr Vijte/þ kostade ecke nema ad giefa vt Peniga / og kaupa þar med Sælumessur/Vigiliur / fyrer þeim Framlidnu. Enn Ritningen seiger/ Ex Inferno nulla Redemptio, wr Heluijte er eingen Endurlausn. Þar er ein stor Ofæra stadfest a mille/ Luc. 16. Hier i Heime hlytur Madur ad giöra Jdran / og sa og ödlast Syndanna Fyrergiefning / 2. Cor. 6. Nu er sa hallkuæmelege Tijme/ nu er Dagr Hialpræde sins. J Dag ef þier heyred Raust DROTTENS / þa byrged ecke aptr ydar Eyru. Matth. 9. Mañ sins Sonur hefur Magt a Jördunne ad fyrergiefa Syndernar. CREDO. Eg true Syndanna fyrergiefning. Math. 16. 18. Huad þier leysed a Jörduñe/skal leyst vera a Himnū / Matth: 25. Og þa Dyrnar voru tilluktar/og hinar adrar Jomfrwr komu/og sögdu/ Herra/lat vpp fyrer oss / þa sagde Brwdgumeñ/Sannlega seige eg ydr/Eg þecke ydur ecke. Item/ A hinum sijdasta Deige mun Christur seigia huad gott edur jllt huör hefur giört/ Eg var hungradr og þier gæfud mier ad eta / og ct. Þar epter verdur sa seinaste Domur

vppsagdur

vpp ſagdur / og ecke til lagt / huort einn eda annar hefur j hreinſunar Ellde bætt + Fullnægiu giort fyrer ſijnar Synd/edr ei. Matth. 25. Cap.

## Huadan er þeſſe Lærdomur/ um Hreinſunar Ellden/ Komen jnn j Chriſtelega Kirkiu ?

Þeſſe Lærdomur hann er Komen fra heidnum Mönnum. Þui ſa gamle Plato huer ed Lifde fyrer Chriſti Hingadburd 400. arum / hann ſkrifar ſo j Bokenne De Anima / Item / annare Bok Gorgia. So ſem vottar Euſebius / Qui habent Animam ſanam, veniunt jn inſulas beatas. Qui ſunt inſanabiles, deſcendunt ad Orcum, qui habent ſanabilia delicta, purgantur in Igne, Þad er. þeir enu ſömu ſem Oſtraffanlega hafa lifad verda Sæluholpner. Hiner adrer ſem Storſyndꝛ er og Glæpe drygt hafa/ þeir kaſtaſt j Hel vijte. Þeir ſem eru Sanabiles/ þad er/ þr ſem hafa ſoddan Synder/ ſem bætaſt iafnaſt meiga/ þeir hliota ad klaraſt j Hreinſunar Ellde. Og þegar þeir eru af

Syndonum Hreinsader/ þa koma þeir til Sæluhialpar. Alyka eins lesum vier hia Virgilio Lib. 6. Æneidos/ Item/ hia Homero De Elpenoris Vmbra, / Odissa 5. Af soddan Rökum hafa Papistar/ diktad þeirra Hreinsunar Elld. Og þar finast nöckrer Theologi/ Papistar/ sin ecke skamast siin ad hrosa af soddan Grund- uelle/ ad hn̄ finest hia Platone/ Homero/ Virgilio/ Ovidio: ꝛc.

Þesse Lærdomr asamt med Penadom- enum han̄ er vppkomen j Christelegre Kir kiu/ a Dögum Gregorij Magni sem var Paue j Rom. Af soddan Ordsök og til efne. Pad skiede so j ymsum Stödum og Löndum/ ad marger Andar birtust Mön̄ um/ sögdust vera Sæler hiña og annara framlideña Manna/ Klögudu og baru sig illa/ ad þær lide Kuöl og Pyysl i Hrei nsunar ellde/ badu þui ad giefa ölmösur fyrer sier/ og syngia Messur/ þad være þeim til Endurlausnar ꝛ Frelsunar. Sij- dan þa epter a þa slykar ölmösugiörd ꝛ Messur voru vte/ þa birtust þær Mön̄- nm aptur/ og sögdust nu vera lausar og kuittar vid alla Kuöl og Pynu/ og Frels adar ꝛc

adar wr öllū ſkyrſlu ellde/Af þſſu hefur Pave Gegorius Magnus ſett og ſkickad Boner/Bæner/ölmóſugiórder/Salumeſſꝛ ✝ Artijder fyrer þeim framlidnu Salum ſem være j Hreinſunar ellde/ſo ſem hans eigen Bækur eñ nu votta/ einkum ſu Bok ſem kallaſt Dialogi. Og ſlijkt hefur hañ giórt an alls Guds Ordz/og þui þuert a mote. Eſa. 8. Skal Folked ecke leita Ræda til Gudz? Eda eiga Meñ ad ſpyria þa Daudu ad nóckru/hellldꝛ eñ þa Lifóndu? Leited til mijns Ordz / Miña Vitnisburda/huór hñ talar ecke þar epter þeim ſkal ecke Morgun Roden vppreña Item/Luc. 16. Þeir hafa Moyſen og Spameñena. Hlyde þeir þeim.

Þær Bevijſingar ſem Papiſtar hafa af Ritinguñe og Forfedronum/þær hafa ónguan goodan Grunduóll/og duga allz eckert/ ✝ ſumar af þeim eru heimſkulegar og ſpottlegar.

## Sa þyrſte og hellſte Grunduøllur Papiſta/ er þſſe.

J Aññare Bok Maccabeorum 12. Cap. ſtendur ſo. Og þeir komu ad ſækia þa

Framlidnu / so sem Sidur er til ad grafa þa hia þeirra Fedrum. Þa þeir nu slettu Blødum þa Framlidnu / þa fundu þeir næst Blødum hia sierhuerium þeirra / Hnoss eda Klenodium af Skrurgodum wr Jamnia / huad Gydingum var j Løgmalenu fyrer boded. Þa vard fyrer huorium Manne augliost / huar fyrer þesser høfdu falled. Og þr giørdu Gude þm Riettlata Domara Packer / sa sem liet þad leynda so opinbert verda / og badu han / ad han ecke fyrer þessa Synd afmade þa alla /

Þui næst bad Judas þa ad leggia til samans nøckra Peninga / rij. Þusund Peninga Silfurs / þad sende han til Jerusalem til Synda Offurs. Og han giørde þad vel og Gudlega / ad han giørde minning Vpprisunnar. Þui hefde han ecke von ad / ad þeir j Helslegnu munde Vpprisa / þa være þad til onytis og ein heimska ad bidia fyrer þeim Framlidnu. En af þui hann huxade ad þeir sem Deyia j riettre Tru eige Fagnadar og Sæluhialpar ad vænta / þa hefur þetta vered ein Heiløg og good Meining. Þui hefur han og so beded fyrer þessum Framlidnu / so ad

ad þeim yrde Synderner fyrer giefnar.
Hier suarast So til.

I Bækur Maccabeorũ / eru ecke Autentica scripta, Pad er / þær eru ecke jafnar vid Spamañana edur Postulañã Bækur / so ad Christeleg Kirkia sie þar vidbunden / ad trua þeim an alls Motmælis. helldur er su öñur Bok Maccabeorum af einhuörriũ onafnkiendũ skrifara vtdreigen * saman teken af þeim Bokum Jasonis / so sem merkia ma af hans Ord um sialfs / Cap. 2. Og opt skiedur þad ad Historian þessarar Bokar / samhliodar ecke vid þad sem stendur j fyrstu Bokeñe / sem beuïsad verdur j mörgum Greinum / ef Menn bera samañ þær Bækur.

II J añare Grein / talar þesse Texte eckert Ord vm hreinsunar Elldeñ / helldur lofar alleinasta Judam Maccabeum fyrer þad / ad hañ hafe fastlega truad þre Grein vm Vpprisuna / hñ sende 12000 Peninga Silfurs / og giörde vel og agiætlega j þui / ad hañ giörde eina Minning vm Vpprisuna.

III J þridia mata. Synda Forner voru j Moysis Lögum bodnar og bifal-

adar fyrer þa Lifóndu. Og Judas glór-
de riett j þui/ þa hañ fann þetta Skwr-
goda Fie hia þeim sem falled hófdu j
Bardaga / huar af openbert var orded /
huórsu ad allt Strijds folked var j storū
Voda stadt/vegna soddañ Syndar/ad hñ
liet fornfæra Syndaforner/ og bidia Gud
ad hañ villde hinum ódrum ecke til reikna
annarlega Synd. Enn Moyses Fornfær
ingar og Offraner og Ceremoniur hafa nu
enda/ og eru afteknar j nyia Testamentenu.
IIII J fiorda mæta/ Pad Maccabeus
meinar hier med / ad slijkt Offur skyllde
koma þeim Daudu til Gagns/ þad hefur
verid Mañlegt Hugbod og Autlun hans.
Og j Textanum stendur þetta eitt Ord/
Dialogizomenos/ Pad er / Judas
talade/ sagde/ Ad þad være ein Good
og heilóg Meining/ ad bidia fyrer þes-
im Daudu/ so þeim yrde Syndernar fyr-
ergiefnar. Enn slijkt Hugbod/ slijk Hiro-
un og Ætlan hefur ecke neitt Guds Ord
fyrer sier/ eckert Fyrerheit/ eckert Dæme j
allre Heilagre Ritningu. Auk þss þa var
j þann Tijma/ j þm languarande Ofrid
arstorme sem þa yfergieck allt Land Syd
inga

inga/margt þad jnnleidt j Kirkiu Þion-
ustugiörd Mustereſins til Jeruſalem/ ſem
teked var af Sidueniu heidenā Mañа / ſo
ſem ſialf þeſſe Bok vtuÿſar/ 4. Cap.
Þa Jaſon fieck þad Yppaſta Kieñemans
Embætte/ vande hañ Folked til heidenna
Manna Sida/ Hann tok af þad gamla
ærlega Lögmal / og kom vpp med adra
oærlega Sidu. Hañ vppbygde eitt Spil
hws/ ſo ad Preſtarner toku meira Vara
þar vppa/enn a þeirra Fornfæringum j
Muſterenu. Item/hann ſkickade til 300.
Peninga Silfurs / ad færa Forner Her-
culi. Itē 1. Maccab. 7. Seigia Preſt-
arner þeim Hertuga Nicanor/ huörſu
myklar Forner þeir Daglega fornfære
fyrer hans Konge Antiocho/ huör ed
laſtade og offſokte bæde Gud og alla Þr-
ra Religionem. Item/j Maccabe. 12.
Færdu þeir Forner fyrer heidnum Möñ-
um j Sparta. 2. Maccab. 3. Færde O-
nyas Preſtur Forner fyrer þm Kirkiu Rey
ſara Heliodoro: Og 13. Cap: Færde
Kong Antiochus ſialfur Forner j Muſte-
renu. Hier vt af ma ſia og merkia/ad þ
hafe eingeñ Vndur vered/þo Maccabeus

hafe haft + hallded þeimeñ Sid/ad færa Forner fyrer þeim Framlidnu/ huör Sidur þa var tekeñ af Heidingium/og jñleiddur j Guds Christne. Enn af þessu fylger þad ei epter / ad vier sieum þer fyrer skyllduger ad breyta epter soddañ Dæmum/ og giöra Bæner og færa Forner fyrer þeim Sælum j hreinsunar Ellde/ Helldur höfum vier aðra Reglu + Bifalning langt um vissare j Guds Orde/ Deutro. 12. Seiger Gud/ Þier skulud ecke giora huad ydur sialfum riett synest hell dur þad huad eg byd ydur/þad skulu þier hallda/ og giøra þar epter/ þier skulud huorke vana þ nie auka. Item/ Ezech. 20. Þier skulud ecke lifa epter ydra Fedra Setningum/ og ecke hallda þeirra Riettinde/ Epter mijnum Bodordum skulu þier lifa/ og mijn Riettinde skulu þier hallda/og lifa þar epter.

Aunnur þeirra Bevijsing
eda Grunduöllur.

Psalm. 66. Vier höfum geinged
um

vm Vatn og Elld/Enn þu leyster oss vt
þadan/ og endurlijfgader oss. Þetta Vers
vtleggur Origenes vppa hreinsunar Elld
eñ. Andsuar/ David talar hier vm Voda
og Hañka/ og allskyns Motgang og O=
giæfu sem j þessu falluallta Lijfe kann
vppa ad detta/ og þackar Gude ad hañ
hefur frelst hann wr mörgum og myklum
Haskasemdum/ so sem þetta ma augliös=
lega skilia af þeim Ordum sem fyrer og
epter standa. Þar med þa er eckert Vatn
j Helwijte/ so sem David seiger hier/ Vier
geingum vm Vatn og Elld.

## Þridia Beuijsing Papista.

Ecclesiasti. 4. Cap. Sumer koma
vr Fiotrum og Fangelse til Konungs
Rykis/ Med þessum Ordum hafa sum=
er Papistar viliad beuijsa hreinsunar Ell
den. Andsuar/ Salomon talar hier vm
Ostödugleik Luckunnar hier j Heime/ og
seiger/ Ad marger Stormegtuger Herrar og
rijker Kongar hafa orded blafatæker/
Þar huert a mote hafa marger Fatæker
vr Fiötrum og Fangelsi komed til storrar

Aru og Heidurs / Sem var Joseph / David / Daniel / Petta er Meining Salomonis / Enn vm hreinsunar Elld dreymer hann alls eckert.

## Fiorda Bevijsing.

Zacharie 9. Cap. Fyrer Blod þijns Testamentis leider þu þa Fiøtrudu wr Grøþeñe / þar jnne ad eckert Vathn er / Hier med vilia sumer Papistar beuijsa hreinsunar Elldeñ:

Enn hier suarast so til / Ad Spamad urenn talar vm þa Hørmung og Neyd / j huørre allt Mañlegt Kyn hefde eilijflega orded ad glatast og tynast / vegna Syndanna / og þackar Guds Syne fyrer þad / ad hann hefur fyrer sitt Blod leyst + frelsad oss þar j fra. Og slijka Endurlausn leggur hañ til Blodenu Christi / enn ecke Papistanna Messum / Aflatum / eda ødrum þuilijkum daudum Verkum:

## Fimta Beuijsing.

Micheæ 7. Cap. Gled þig ecke mijn motstødu

motstødu Kona/ þo eg ligge palleñ/ Eg mun koma vpp aptur/ og þo eg sæte j Myrkre/ þa er þo Drottenn mitt Lios. Eg vil bera Reide Drottens/ þui eg hefþ syndgast a mote hønum.

Eñ hier suarast so til/ Spamadurenn Micheas talar vm þa Babilonesku Herleiding Gydinga/ þar þeir voru herteker j 70. Aar/ og amiñer/ ad Heidingiar skule ecke ofmiög fagna nie glediast yfer Oförum og Fangelse Gydinga/ Gud hañ vitie nu þeirra heim þeirra Synda vegna/ Eñ þo mune hañ ecke vtkasta þeim med öllu helldur mune hann epter Reffsingena leida þa heim aptur j þeirra Land/ og gledia þa/ Eñ vm hreinsunar Elld talar hann ecke eitt Ord.

## Siøtta Bivijsing.

Malach. 3. Hann mun vera so sem eirn Gullsmids Elldur/ hañ mun sitia/ smellta og Silfred hreinsa. Og þetta vilia Papistar ad hlyde vppa hreinsunar Ellds

Ellden. Enn hier suarast so til. Malachias talar hier vm Velgiörningana Christi ad hann mune fyrer Orded og fyrer Kross 7 Motgang hreinsande verda sijna Christelega Kirkiu/ so sem Dauid seiger j 12. Psalme/ Sio sinnum verdr Silfur j Ellde-enum reynt/ 7 cr.

## Siounda Bevijsing.

J fyrra Pistle til Corinth. 3. Cap. Pad mun fyrer Ellden openbert verda/ og huilijk ad sie huers z eins Verk/ pad mun Elldurenn reyna/ Verde nockurs Mans Verk stadfast sem hann hefur par vppa bygt/ pa mun hann Laun ödlast. Enn ef nockurs Mans Verk brenn ur/ pa mun hann Skada lijda/ enn hann sialfur mun verda holpenn/ po so/ so sem fyrer Ellden. Pesse Ord vtleggia Papistar vppa hreinsunar Ellden. En Andsuar hier til er þetta.

S. Pall hann talar hier eckert vm hreinsunar Elld/ Helldur seiger hann ad Christur sie alleinasta Grunduöllur vorrar Salu-

Saluhialpar/ og ad eingeñ kunne annañ Grunduöll ad leggia/ Vppa þennann Grunduöll byggia sumer Gull/ Silfur/ Gimsteina/Sumer Trie Hey ꝛ Halmstra/ Þad er ad skilia/ Sumer predika Christū epter hliodan Ritningareñar/og kieña ad trua a Christum alleina/Sumer sla hier i bland hinu og ödru/ sem epter Skynseme synest ad vera dyrmætt og agiætt/ Enn i Elldenum/ þad er i Krossenum/ og þeim þungu storu Samuiskuñar Freistingum ꝛ Aastrijdum/ einkum a seinustu Daudans Stundu/þa verdur reynt og profad/huilijkt huörs Mans Bygging hefur vered/ Huad hellst vered hefur Trie Hey ꝛ Halmstra/þad er Mañlegar Hugreñingar/fyrer vtañ Heilaga Ritning/ þ hlytur burt ad brenna allt/ og verda ad önguu/ og þ kann ecke i Skielfingu og Aastrijdu Daudans Samuiskuna ad hugga/ og eingenn Hlutur nema Guds Ord/ þetta er S: Pals Meining. Med þessu mote eru allar adrar Greiner Ritningareñar/sem hier til verda sueigdar og beygdar/þær koma hier önguañ hlut vid/ og ecke eitt Ord ꝛ þeim finnur þu þad sem hliodar vppa

hreinſunar Elld + Meſſu Offur.

## Attunda Beviſing.

J ſijdaſta mata/ So mijked ſem að hrærer þa gömlu Kieñefedur/ huória Papiſtar hafa fyrer ſier/ til ad beuijſa þeñañ Lærdom/ þa eru tueir hluter ſem Menn ſkulu vita/ Fyrſt þetta/ ad allar Bækur Kieñefedraña/ þær eru Maña ſkrift/ eru vnder Guds Orde/ enn ecke yfer þui/ hafa öngua Magt ad jnſetia eda ſkicka nöckra Truarennar Grein/ an Guds Ords. Þad añad/ Þeir gömlu Lærefedur hafa j annañ mata og ödru vijs þar vm talad huórnenn Menn ſkule fyrer þeim Daudu Bidia/ helldur enn vorer Papiſtar med ſr ra hreinſunar Ellde + Meſſu Offre.

Hæc Mirus.

### Spurning.

**Huad helldur þu aþ þim Aundum ſem birtaſt Mǫñum/ z ſeigiaſt vera Sæler Maña/ og bidia ad hialpa ſier wr hreinſunar Ellds Kuölum og Pijſlum ꝫ**

med

Med soddan Vitrǒnum Framlidenna Sælna/ er þesse heidena Manna Villa/ og þetta Lygaverk af. hreinsunar Elldenum/ mest ꝛ hellst styrkt og stadfest orded/ og allann Framgang feinged/ so sem liosslega sia ma j Gregorij Pava Bokū/ einkum j þeirre Bok er hañ kallar Dialogos/ þar seiger hañ fra hinum og ǒdrum Vitrǒnum Framlideña Sælna/ og setur fram/ hin ꝛ ǒnnur Æfintyr/ vm þær Sal er sem Framlidnar voru/ huǒrneñ Menn skule/ med Offre Heilagrar Kuǒlldmaaltijdar/ þeim til Hialpar koma/ og þær frelsa wr hreinsunar Ellde/ ꝛ ct.

Enn hia Lucas 16. Cap. Þa verdur þeim rijka Manne aldeilis med ǒllu af sagt/ þa hann Bidur ad Sal Lazari edur einhuǒrs annars Framlidens/ mætte send ast i hans Fǒdurs Hws/ til hñs Brædra/ Helldur verdur hǒnum sagt/ ad þad sie omǒgulegt/ ad nǒckur framlideñ Sal mege koma hingad aptur. Ja/ Abraham leggur þad til/ Ad þo slijkt være mǒgulegt/ og þo þad feingest/ þa sie þad þo forgiefins.

Enn huad hallda skal/ og huǒria meining

Meining Manna skule hafa vm þær Sal-
er edur Anda þeirra Framlidnu/sem Bir-
tast Mőñum lata sig sia og heyra/epter
Andlat Maña/þa vilium vier helldst hey
ra huad hinn Heilage Chrysostomus þar
vm skrifar/Huiad hñ eiñ befur hitt vppa
þa riettu og sõñnu Meining þess a Efn-
is/ og hana med sõñum Greinum Ritn-
ingarennar noglega styrkt ꝛ stadfest.

So skrifar hañ/ yfer 19. Cap.
Matthei Homilia 29.

Huor vill koma ydur til ad trua þui/
ad Saler þeirra Manna sem offrader
eda Lijflatner verda/ skule vera Stod
þeim sem fara med Spafarer? Mein-
ar þu ad eg skule þar fyrer trua þui/ þo
ad sumer Andar hafe so sagt/ Eg er þess
Mans Sal. Huiad þesse Ræda kiemur
vissilega af Diøflenum/huor ed med þui
um hætte vill pretta og suiкia Meñena.
Huiad ecke er þad Sal hins Framlidna
sem þetta talar/helldur Diøfullen sialf-
ur/Hañ vpp dicktar og lygur slijkt vppa
þad

þad ad hañ suÿke þa sem þetta heyra/ z þessu vilia nockra Vakt giefa.

Og litlu seinna þa seiger hañ eñ aptr. Soddañ Ord (vm Vitran Framlideña Sälna) eru ecke annad enn Druckeñna Kiellinga Nial/ og Barna Hræda Niegomleg. Þuiad Mañsins Säl/ þegar hun er af Lÿkamanum lidcn/ þa kann hun ecke ad koma aptur j þennañ Heim/ edur hier vm kring ad rafa/ Þuiad Säler Riettlætra eru j Hende Drottens/ Enn Säler þeirra Oguдlegu/ þa þær lÿda af Lÿkamanum/ þær verda jafnsnart burt bornar/ þangad sem þær eiga ad vera/ sem sia ma a Dæme þeirra Lazari og hins rÿka Mans. Þar ad auk seiger Herr añ j ödrum stad/ Luc. 12. J Dag taka þeir þÿna Säl fra þier. Ef hun verdur so burt tekeñ eda boreñ/ þa kann hun ecke ad ræfa eda fara hier vm kring a Jördūñe: Og med mörgum Greinum Heilagrar Ritningar verdur beuÿsad/ ad Säler fra Framlidnu koma ecke aptur hingad. Stephanus seiger/ Act. 7. Herra Jesu

medtakeu minn Anda. Poll seigest girn=
ast ad fara hier fra/og vera m3 Christo.
So + lyka kuña Saler þeirra Fram̄
lidnu Ogudlegu/ ecke helldur ad huerfa
hingad aptur/ Pad ma sia liostlega a hin
um ryka Manne/Hann villde giarna ad
syn Sæl mætte koma aptur j þennann
Heim til sinna fim̄ Brædra/en̄ han̄ fær þ
ecke. Være mógulegt ad Sælernar kynne
ad koma aptur'j þennañ Heim/þa hefde
hans Sæl vissulega aptur komed/+ sagt
sijnum Brædrum fra/ huórnenn hættad
være Heluijtis Auólum + Pijslum. Huar
vt af liost er ad merkia/ ad epter þennann
lykamlega Dauda/ þa verda Sælernar
burt leiddar/ j einhuórn vissan̄ sierlegann
Stad/ huadan̄ þær kunna ecke ad komast
hellour hliota þær ad vænta + bijda þar
þess hrædelega og grim̄lega Dags/þegar
Sonur Guds kiemur alla ad dæma:
Hæc Chrysostomus.

Lutherus jn Euangelium Luc. 16.

Kunne þier ad vitrast/sa Ande/sem
seigest ad vera þess edur þess Mans Sæl
og

og Bidur ad hialpa ſier med Meſſum og Aulmóſugiórdum / Þa ſkalltu vita fyrer vijſt/ þad er einn Dióful. Þar hefur enn nu allt j fra Upphafe Veralldar alldrei nóckur Sál vitraſt / Gud vill ꝛ ecke hafa þad / Hæc Lutherus.

Auk þeſſa þá er af Gude ſtreingelega fyrerBoded ad leita Rꝛda eda Saũleiks j hia þeim Daudu/ eda hia Spaſagnar Mónnum og Teikna Utleggiórum/ Þui huór hellſt ſem þetta giórer (ſeiger hann) ſa er Suiuirding fyrer Drottne / Og vegna ſoddañ Hluta vtdrijfur Drottenn þinn Cananeos fyrer þier. Og Eſa. 8. Cap. Skal ecke Folked leita Rꝛda til ſijns Guds ? Er tilheyrelegra ad ſpyria þa enu Daudu helldur enn þa Lifondu ? Ja/ epter Logmꝛlenu og Vitnisburdenum/ Seige þeir ecke þar epter / þa muenu þr ecke ſia morgun Lioſed.

Spurning.

## Huar byrer byodur Gud/ ad Meñ skule ecke leita Rꝍda til daudra Anda/ og ecke hlyda þeim?

Þuiad þeir Andar eru ecke Gooder/ Og þad eru ecke Sꝍler vorra Vina eda framfareña Forfedra/ helldur eru þ suikafuller Dióflar/ sem ad suÿkia og pretta Meñ. Þuiad þo þeir seige Sañleikã endur og siñum/ þa skiedur þad af suiksömu Hiarta/ ecke nema til þess/ ad þui verde truad helldur sem þeir seigia/ So hefur Galldra Konan j EnDor 1. Reg. 28. ecke vppvaked Samuelem (þuiad fiarlægt skal vera/ad nóckur true þui/ad ein Galldra Kona skyllde hafa Magt yfer Spamanne Drottins/ þa þ þegar hun villde) helldur hefur þad vered Missyning Diófulsins/ og eirn vondur Ande/ huór ed Birst hefur j Mynd og Lÿking Spamañsins/ So sem þetta og annad er Dióflenum hægt ad gióra/ þuiad hañ er þusund Vielasmidur/ og kañ lꝍta sig sia so sem være hañ Eingell Liossins/ þegar hann so vill.

Spur-

Spurning.

Matth. 17. Lesum vier/ad Moyses og Elias hafe birst a Fiallenu Thabor j Forklaran Herrans Christi. Þar fyrer ma þad til bera/ad Andar + Sæler fram̄lidena late heyra og sia sig.

Andsuar.

I Þad epterfylger hier ecke. Huiad slijkt hefr ecke nema alleinasta einu sin̄e vidborid. Þeir lærdu kalla þad ad argumentera a particulati ad Vniuersale.

II Þar næst. Þeir sin̄ þeir birtast/ta la + ræda hier vid Christum / þ voru ecke alleinasta Sæler þeirra Moysis + Eliæ. Helldur þeir sialfer giörualler/med Sælu og Lijkama/so sem þeir voru til Himens vpptekner. Þetta skiedur ecke adra Fram̄lidna/þui ad þeirra Lijkamer eru ecke hia Sælonum / helldur liggia þeir og fwna j Gröfonum. Þar fyrer er þar stor Mismunur a mille soddan Birtingar/+ þeirra Anda sem seigast vera Sæler fram̄lidena Moyses og Elias birtast hier/lata heyra sig og sia/j þeirra Lijkömum/so sem þeir voru til Himens vpptekner/+ so sem þeir

F iij. alla

alla reidu voru forklarader ordner / j Dyrdeme. Þui er myklu ódru vijs hattad þessare Openberan Mosis + Elie/ helldr enn annara Framlidenna. Ad vndan teknum Enoch. Þuiad þesser þeir koma þar vr ódrum Heime/prydder og skrydder m3 Himneskre Dyrd og Lioma/og hafa Samtal vid Christum / ecke vegna Herrans Christi / helldur myklu framar vegna þra þriggia Læresueina/sem Heyrdu þar vpp a/ huória Christus tok med sier þess vegna/ ad þeir skylldu heyra vppa þad Samtal. Ja ad vijsu. Vegna allrar Christelegar Kirkiu/þa hlaut Moyses so sem Lógmalsins Bodare/+ Elias sa ædste allra Spamanna/þeir ed adur hófdu vered j þessum Heime/þeir vrdu þar ad vot ta og predika vt af Christo.

Þar fyrer verdur og þar jafnframt med avijsad/ huar vm þeir hafa talad vid Christum / huór þeirra Ræda vered hefur/sem er. Vm hans Dauda og Vpprisu/huar vtj Summa og mergur all3 Gudlegs Lærdoms er falen og folgen. Þad skalltu og hier merkia/ huar þeir hafa teked efne þeirrar Rædu : sem er vr

heilagre

hellagre Skript/ So ad vier skulũ vita
þad/ ad þo Spamennerner rise vpp/ og
Sälennar kiæme aptur/ þa mundu þær
ecke neitt annad kienna ✝ predika/ eñ þad
sem samhliodanda være vid Bækur Spa
mañana og Postulanna. Vm Christum/
hans Dauda/ Forþienustu/ og Vpprisu.
Enn ef þeir kleña nockud annad/ þa eru
þad ecke Prophetar/ Postular/ eda adrer
Heilager sem Birtast. Helldr obreiner jller
Andar/ fyrer huorium einn og sier huór
Madur skal vakta sig/ so sem fyrer Diöfl-
enum sialfum.

D. Martinus Mirus, skrifar
so hier vm.

Guds Ord kiemer oss lioslega/ ad
Säler Framlideña kuñe ecke fyrer Doms
Dag ad koma aptur j þennañ Heim/ Þui
ad so seiger David/ þa hans vnge Son
andadest/ 2. Reg. 12. Ecke kann eg au
kalla hañ hingad aptur/ Eg fer til hũs
enn hũ kiemur ecke aptur til mijn. J em
seiger Syrach 38. Cap. Fra Daudan-
um kiemur eingeñ/ Luc. 16. Cap. Þar
er mijkel Öfæra stadfest. Enn þegar h

E iiij. skied-

skiedur/ad Andar læta sia sig eda heyra/ + seigast vera Sæler Framlidenna/so sem þa Samuel birtest Saul Konge/1. Reg. 28. Og so sem ad slijkar Vitraner þær hofust mest a Dögum Gregorij Magni Pava j Rom/+ hafa sijdann jafnann varad j Pavadomenum/ba hafa þad alldrei vered Sæler Framlidenna/helldur oþreiner Andar.

So mijked sem Samuelis Historiu vid vijkur/þa medkienner Saul fyrst/ ad Gud sie vikenn fra sier/+ vilie sier ecke Ansveita/hvörke fyrer Spamenn nie j Svefne. Þar næst þa er þesse Tilteckt Sauls þvert j giegn Gude/ Þviad Gud hafde berlega bannad og fyrerboded sijnu Folke ad spyria Galldra Nienn ad nöckrum Hlut eda ad leita Saannleiks hia Framlidnum/ Levit. 19. + 20. Esa. 8. Þar fyrer er j önguann máta þad truanda/ad Samuelis Sæl hafe j mote Guds Bodorde veitt nöckra Hlydne Saul Konge.

Þar med þa fylger þetta epter + eirnenn/Hafe þetta vered su rietta Sæl Samuelis/þa hefr Diöfullenn vissełega Vallð yfer Sælum Riettlætra/og ad þær hafe ecke

ecke helldur Frid fyrer hönum j Himerijke. Enn Ordeñ Textans þan vtskyra liöslega og aviisa oss/ huðr þesse Samuel vered hefur/ Þui hefur þu (seiger hñ) giört mier Onæder/ og kallad mig vpp hingad. Item/ Þui villtu spyria mig ad/ Med þui Drotteñ er vikeñ fra þier/ og er ordeñ þiñ Ovinur ? Drotteñ mun giöra so sem hañ hefur talad fyrer mig/ og mun rijfa Rijked vr þinne Hende/ og giefa þad David af þui þu varst ohlydeñ Röddu Drottins Þar med mun Drotteñ giefa Jsrael med þier j Philistei Hendrr/ A Morgun muntu vera þar eg er/ + þijner Syner.

Þesse Ord synast ad söñu j sialfu sier ecke lygeleg nie jll/ Þuiad Diöfulleñ kann vel ad taka vppa sig Mynd Liössens Ein gels/ Enn a Klaufönum ma Kaullska kieña. Villie Madur nu þeckia hñ + glæ ta vel ad/ huört hañ vill/ huad hañ ætl ar sier/ þa er liöst ad merkia/ ad med þss are Rædu og Predikun astundar hañ eck ert annad ad giöra/ enn ad koma Saul j Aurvilnan og Efasemd/ Sö sem og skiede/ Ad af þeirre Rædu vard Saul so Skielfdur og Ottasleigeñ/ ad hann lijdu

F v nidu

nidur/ + fellur i Omeigen. Eñ um Guds Nad og Myskun/ um Jdranena/ Um Fyrergiefning Syndaña/ verdur hier ecke med einu Orde talad/ Helldur alleinasta um Þyckiu og Reide Guds j giegn Synd⸗enne. Þar fyrer/ Med þui ad Saul fær ecke öñur Ord ad heyra enn þesse/ þa fell ur Hugur hans og Hiarta til Gruns/ ef⸗er alla Guds Nad og Myskun/ verdur sialfs sijns Banamadur/ og fer med Sa⸗lu og Lijfe til Diöfulsins/ so sem hñ sagde hönum þad fyrer med liosum Ordum/ a Morgun muntu vera hia mier: Eins er hættad þeim Vitrönum/ þegar Andarner Birtust Mönum j Pauadomenum/ + Bæ⸗du ad Meñ skylldu giefa Aulmösu/ Jtem giefa til Kirkna og Klaustra/ leggia apt ur rangfeinged Goz/ Þesse Ord eru ecke jll/ + ct. Enn hier var allt añad vnder nidre faled og folged. Þuiad med þessu dro Diöfulleñ Mennena fra Christo / og kiende þeim ad forlæta sig vppa þeirra eigen Verk/ so þr skylldu trua þui/ ad þr giærte sialfer bætt fyrer þeirra Synder/ + forlijkt sig vid Gud med þeirra Aulmös⸗um og ödrum Verkum. Diöfulleñ leider

Meñ

Nenn og hier med fra Guds Orde og Predikunar Embættenu / + vÿsar þm til Openberinga og Vitrana daudra Anda / Huert j mote klaru Orde Textans / Þeir hafa Moysen og Spamennena/ hlyde þeir þeim. Ad sÿdustu helldur Dióffulleñ Mónnum hier med fra sañre Jdran og Aflate Syndaña/so þeir drage vn dan ad forlÿka sig vid Gud/og deyie so j Syndónum/ og hyxe med sier / Ad ei sie stor Þørf a Jdranenne / med þui þeim Framlidnu verde vel vidhialpad/til Sælu hialpar/m3 ødru mote.

# Um þa Framlidnu Heilaga.

Nu Ett hier til heyrur vered tal ad vm þad/ad Meñ skule ecke bidia fyrer þeim Frañlidnu. Nu vilium vier vt af Guds Orde hier a mote fa ad heyra

ra/ huørt ad Heilager Framlidner Bidie til Guds fyrer oss/ og huørt vier eigum þa ad akalla og tilbidia/ so sem Papistar kieña/ Þar med og lijka/ huøria Æru vier eigum þeim Framlidnu Heilögu ad veita. Um þetta skrifar so/ D. Martinus Mirus.

## Um Akall Heilagra/ og huørn Heidur Menn eige Framlidnum Heilögum ad veita.

Papistar kieña/ ad Meñ skule akalla Framlidna Heilaga/ og þriggia adskilianlegra Hluta þa Bid a.

1 Fyrst/ Ad þr sie vorer Arnadar Meñ og Bidie Christum fyrer oss/ + vtuege oss hans Nad og Myskun.

2 Pad annad/ Ad þeir veite oss + giefe af þeirra goodum Verkum og Heilag leika/ og læte oss verda niotande þar af med sier/ so ad vier faum stadest fyrer Guds Dome.

3 Pad sijdasta/ Ad þr sie vorer Naud hialparar j øllum Motgange Neydum + Haskasemdum/ + frelse oss þar j fra.

Ad þetta sie so j Sanuleika/ og ad Meñ

Mann vite ad þetta er ecke med nöckrum Osañindum hermt og sagt vppa Papista ana / so sem nu hallda allmarger / þa eru til slyks fernar Beuysingar.

Fyrst eru til og fyrer Hende Papistañ sialfra Bækur / bæde fornar og nyiar / af huørium tekn verda þetta Formalia Verba, sialfs eigenleg Ord / Longobardus, Magister Sententiarum, huør ad er Cathechismus Papistanna / edur Corpus Doctrinæ, Hann skrifar so / Lib. 4. Distinct. 45. Vier af øllum Heilaga / ad þeir Bidie fyrer oss / og giøre oss Hluttakara siña goodra Verka med sier / og siae vort Gagn og hid Besta. Bonauentura. Enn þo ad Heilager sie nu ecke j þeirre Stickañ / ad þeir giete giørt Gooduerkeñ / þo samt / med þui þeir hafa (a medañ þeir lifdu) giørt good Verkeñ so nogleg / ad þeir hafa ecke alleinasta fyrer sialfa sig vtuegad Himerijke / helldur þa kuña þeir og eirnenn nu ad hialpa ødrum þar til. Thomas Bañar med liosum Ordum / ad seigia / Christe bid þu fyrer oss / Helldur skule Meñ akalla og Bidia Heilaga / ad Bidia fyrer þeim / Þuigd fyrer þeirra Aar

nan *

nan og Fyrerbon þa fae Menn og ódleſt Guds Velgiórninga. GABriel Biel ſeiger ſo/ Vier eigū ad hafa Hæle ✝ Athuarf til Heilagra/ſo ad vier fyrer þeirra Fyrerbon og Frameſtódu verdum Saluholpner. Eirn kallar Heilaga/ Portas cœli, Dyr Himerijkes. ✝ ct.

J aňan mata verdur þetta beuijſad af Songum og Leſningum / ſem j Kirkiónum voru j Pauadomenum hafder/ſem voru Reſponſoria, Antiphonę,Hymni, Precationes, Verſus og annad þuilijkt. Papiſtar ſyngia eñ nu j Dag. Salue Regina, Hun hlyder ſo/ Sæl ſiertu Maria Drottning Myſkunareñar/Til þijn kóllum vier aum Euu Börn/Til þijn anduórpum vier gratande/ j þeſſum taranna Dal: O þu true Medalgangare/ lijt til vor Augum þiñar Myſkunar / O þu hin millda/ O þu hin Gooda/ O þu hin ſæta Maria. Verſus/J óllum vorum Harmkuæl um og Haſkaſemdum/kom oſſ til Hialp ar þu Heilaga Jomfru Maria/ ✝ ct. Jtem/Maria Mater Gratię Mater miſericordię/ Pad er/Maria Moder Nad ar/Moder Myſkunareñar. Varduelt þu oſſ

oss fyrer þeim jlla Ovin/ og a Dauda stundu vorre tak vorar Sæler j þijna hönd. Fleira af þessu Tage er ecke þörf ad skrifa / Allar Papista Bækur j Klaustrum og Kirkium. Allar Bænabækur/eru full ar med soddan Akall til Mariu og annara Heilagra/ Huad oflangt er vpp ad telia/ + þar med leidenlegt.

J þridia mata / verdur þetta beuijst ad med þeirre almenelegre Tru sem aller christner Menn höfdu j Pauadomenum/ Huad Mönnum var vijsad til Helagra Framlideña / alla Tijma/ ad fa þa fyrer ærnadar Menn/ Medalgangara/ bia Gude/ad leita til þeirra Hialpar/j öllum Motgange. Huört og eitt Land/ huör + ein Borg/ huör Kirkia/ Huör Ætt eda Kynkuijsl/ huörs slags Embættis Madur/ vtualde sier + hafde eirn sierlegañ Patron og Verndara/ af þeim Framlidnu Heilögu. J Vallande og Rom er S. Petur og Pall fyrer Aarnadar menn og Patrona halldner. J Hispania S. Jacob. J Franckarijke Dionysius. J Þyskalande Martinus og Gregorius. J Lande Polen Stanislaus. J Ruslande Nicolaus/

J Noreige

J Noreigi Olafur Kongur. J Danmörk S. Knutur. So hafde og lÿka huör Borg/ huör Stadur ſiñ Patron + Vernsdara/ Allar Kirkiur + ſier huör var vÿgd + helgud Jomfru Mariu eda einhuörium Heilögum ödrum.

Huört Hws nalega/ og huör Madur hafde einhuörn af Chriſti Poſtulum/ et þeir kölludu Kiörpoſtula. Lærder Menn höfdu S. Katrinu fyrer Patron/ Læknarar Coſmum og Damianum/ Siomenn + Skiparar S: Chriſtoffor / + ct. Til huörrar Sottar/ og ſier huörs Krankdæmis var ſier huör Heilagr hafdur til Hialpara. J Drepſottum ætte Sebaſtianus + Rochus ad hialpa / Fyrer Fallandeſott ætte S. Valentinus ad hialpa/ Fyrer Költduſott Petronilla/ Fyrer Tannaverk Apollonia/ Fyrer Augnaverk Otilia. Margretu aköllludu Jodſiukar Konur/ Johañem aköllludu Menn j Stormum og Ovedrattu/S. Pal j Ellds Neyd + Afergange. Fiarmenn ættu ad hafa S. Vendelinum fyrer Patron. Heſtameñ Eulogium. Nauta menn Pelagium/ Suina Hirdarar S. Anthonium.

J fiorda

J fiorda mata / verdur þetta (Vm Heidran / Bæn + Akall til Heilagra) Beniju fad af Afgudadyrkan þeirre er Menn veittu Heilögum / j ftadenn fannrar Guds Þionöftugiördar / fem Gude einum veitaft fkyll de. Menn hafa fkickad Pilagríms Ferder og giört Arbeit vm alla Christne / til Heilagra Beina / er Menn j Pauadomenum kölludu Reliquias Sanctorum Heilaga Doma / Huad allt ei var nema Suik og Diöfuls Pretter. Þar voru allar Kirkiur fullar med Bilæte og Likneffe / fem giörd voru af Gulle / Silfre / Trie og Steinum / Fyrer þeffum Bilætum hafa Menn nidur kroped / loted þeim og þau tilbeded / + fyrer þeim kueikt Lios og Kyndla. Menn hafa bored þeffe Likneffe vm Tun + Akra / med veglegre Fylgd og Proceffiu. Og fo blinder hafa Menn vered / ad þeir hafa tilbeded þeffa Stocka og Steina / Og allt þetta hefur fo fkied / epter þui fem S. Pall fkrifar 1. Cap. Til Rom. Vm þa Romuerffu Kirkiu / þar hann feiger / Þeir eru j þeirra Fundingum ad Niegoma ordner / og þeirra Skynlauft Hiarta

er forblindad/ i þui ad þr hafa vmbreytt Dyrd oforgeingelegs Gudz j Liknesskiur forgeingelegra Manna/ og hafa Saña leikanum vmsnued j Lygar/ og þionad Skiepnuñe framar enn Skaparanum/ Þar fyrer hefur Gud yfergiefed þa j skaṁlegar Girnder/ so þeir hafa yfergiefed natturlega Atferd til Konuñar/ z hafa logad j þeirra Girndum huør til annars (med Sodoma Synd) z hafa so medteked Laun þeirra Villudoms a sialfum sier. Þetta skrifar S. Paall j sijnum Pistle til Romueria / Og þesse Ord eru hrædeleg / Enn fyrer øllum Heimenum er þad augliost / ad slijkt er satt / og þetta hefur so til geinged j Rom og vijdar annarstadar / þar sem su Babiloneska Brædur hefur rijkt og regerat.

## Huadan er þesse Villa komen Þa Framlidnu Heiløgu ad akalla ?

Upp=

Upprune slijkrar Hiagudadyrkanar er komen̄ af Heidingium / eins og hreinsun ar Elldurenn. Þuiad enn þo Menn hafe vitad / ad þar var eirn Gud / Eilijfur / Almættugur / Þa hafa þeir þo samt diktad þessa Meining vm han̄ / ad hans haleita Tign og Maiestas / være ofmiög Dyrdarleg og Vegleg þar til / ad hafa Vmbyggiu allra Hluta / og ad heyra sialfur allra Manna Bæner / og athuga þeirra Naudsyniar / Þar fyrer hafa þeir sett Gude so sem Vmbods menn og Medhialpara / og vppsett so otelianlega Afgude / suma a Himnum / suma j Loftenu / suma a Jördun̄e / suma j Sionum / j Skogum og Eydemörkum / j Hwsum og Hijbylum So Eusebius sa andlege Sagnamadr hn̄ skrifar / og gietur þess / ad til suma Daga þa hafe Menn vppreiknad 3000. Skwrgoda + Hiaguda / j hia Heidingium. Sumer hafa tilbeded skynlaus Dyr / Hunda / Kiette / Mys og Orma / og hallded þa fyrer Gude.

Egiptalands Menn höfdu eirn Vxa fyrer Gud / huorn þeir kölludu APJS / Og epter þm Sid breyttu Jsraels Syn-

 er

r j Eydemörku/ þa þr steyptu Gullkalfeñ. Þeir j Babylon til badu eirn lifande Dreka/ sem stendur j Historiu Danielis.

Plato sa gamle Spekingur (huörs ædur var gieted) hann kienner ad þar sie tueggia Handa Medalgangarar/ a mille Guds og Manna Dæmones & Héroes, þad er/ Spiritnales essentiæ & Animæ defunctorum. Andar edur Einglar/ + Saler Framlideña Manna. Virgilius skrifar j hiñe 6. Bok Æneidos / huörnenn ad Æneas akallar Födur sinn Framlideñ Anchisen.

Þessa Heidenna maña Meining hefur sa gamle Lærare ORigenes læted sier til Gieds falla/ og sett nöckud hier af j sÿnar Bækur: Þetta var Upphaf Hiagudadyrkanar j Christneñe/ + er skied Año Christi 240. Eñ þo hefur þetta ad eins j þann tÿma staded a Bokum / eñ ecke almeñelega vtgeinged vm Christnena. Enn sÿdan þar epter a/ hefur þesse Hiatru Daglega j vöxt fared / einkum af þui / ad j hia Gröfum framlidenna Pÿslaruotta hafa stundum skied Jardteikner / huöriar j fyrstuñe hafa sañlega vered Guds Verk-

Aþ Beinum Elisei fiendur skrifad/ ad jafnsnart sem Framliden Madur snart vid þau/þa vard hñ lifande 4. Reg. 13. Þad sama liet Gud skie þar fyrer / ad Gydingar skylldu trua Predikan Elisei/ sem hañ hafde haft fyrer þeim vm þa j Syrlande/ + hallda þad fyrer Guds Ord. So hefur og Gud j fyrstuñe læted Stor merke og Jardteikner skie j hia Leidum Postulanna og annarra Þÿslarvotta/þar med ad Beuÿsa þa Hlute sem epterfylgia.

Fyrst/ ad þeirra Lærdomur og Predikaner hafe vered sannarlegt Guds Ord. Þar næst/ ad Dauðe Heilagra yrde j þañ mæta dyrlegur fyrer Augum Drottens. So þar med hefur Gud viliad læta sia + merkia/ huilijka Ast og Vmhyggiu hañ hefur haft til þeirra. J þridia mæta/ Ad adrer christner Menn skylldu þar af styrkiast j Trunne og Goodu Gudlegu Framferde.

En af slijkum Jardteiknum hefr Hia gudadyrkan Heilagra Framlidenna miög efist + aukest/ + marger af þeim patribus hafa vppa þeman Grunduöll bygt Trie

Hey + Halm/ 1. Corinth. 3. Jafnframt
þessu þa hefur Diöfullenn ecke hallded
kyrru fyrer/med sijnum Siukum og Slæ-
gdum / Openberönum / Sionum / Vitring
um / + suikfemdar Jarteiknū/ so ad þsse
Hiagudadyrkan skyllde eñ framar j Ven-
iu leidast og fa Framgang j Christnenne
Po hafa a öllum Tijmum vered nöckrer
fromer Christner/ sem þessum villudome
hafa j mote mællt/ og hamlad/ so hañ
skyllde ecke stadfestast j Kristnenne. Allt
til þess lided var fra Christi Hingadkomu
470. ar/ Pa kom vppeinn Villumadur
mz Nafne PETRVS GNAphens. Hañ
tok fyrstur til openberlega ad til bidia
Heilaga j sine Kirkiu + Samkundu. Litlu
þar epter Anno Christi 681. Pa var a
þui Storþinge/ sim nefnest Synodus Oe-
cumenica sexta(so framt Papistum og
þeirra Bokum ma trua)stadfastlega sam-
teked/ad Menn skylldu Framlidna Heila-
ga akalla/huad sijdan halldist hefur vm
allan Pauadomeñ. Þetta er nu fyrsta
vpphaf og Vpprune Bænaakallsins til
Heilagra.

Eins hafa lijka Likneskeñ til komed.

Þar

Þar vppa hafa fyrst funded Heidner men̄
Þad fyrsta Bilæte eda Likneske sem
j Heimenum var giört/ þad giörde Ninus
Kongur j Assyria Lande. Han̄ liet giöra
Likneskiu epter sijnum Födur Belo/ til
Min̄ingar. Þangad toku ad flyia Prælar
og adrer storbrota Menn/ og höfdu þar
Asylū + Gridastad (Þetta er Root og Grun
nduöllur Kirkiu þridarens j Pauadoniennum)
Sijdan̄ er þtta so Alment orded/ ad þsse
Sidur er komen jnn̄ j Christelega Kirkiu/
og hafa storar Prætur og Sisputeraner
vered vm̄ þau Likneske/ Allt til Anno
Christi/ 700. Þa hefur þesse Villa vm
sijder j Lög teken vered

# Beuijsingar ad Men̄ skule ecke akalla nie tilbidia Heilaga ?

1. Su fyrsta er þesse/ Ad j allre Hei-lagre Ritningu/ þa verdr ecke funded nock urt Ord/ nockur Bifalning/ nockurt Fyr-erheit/ vm Akall og Bæn til Heilagra Framlidenna. Nu bocknast Gude eingen su Þionusta eda Lofgiörd j Kirkiun̄e/ sem ecke hefur Guds Ord fyrer sier: Math.

15. Forgiefins biona þeir mier med Manna Bodordum. Deut. 12. Pier skul ud ecke giöra þad huad ydur sialfum gott þiker / helldur huad hellst eg byd ydur: Einkannlega er Naudsyn / ad Menn huxe hier vm / jafnframt Bæna akallenn / Huiad Bæna akalled er sa Dyrmætaste Fiesiodur / og þad Agiætasta Klenodium sem Christeleg Kirkia hefur. Adrar Pi-oder vita eckert huad þær bidia / Joha. 14. Enn sinne Christne hefur Gud sig op enberad / huör og huilijkur hañ sie / huör ad sie hans Vilie / huörneñ hñ vilie akall-adur og tilbedeñ verda / Og vppa þetta hefur hañ vtgiefed / sialfs sijns Bod + Bi falning / og sitt sañarlegt Fyrerheit / Hañ hefur sett oss fyrer Ordeñ / huörnenn vier skulum bidia / Hañ hefur og læted oss sia lios Dæme / huörneñ hann hina og adra Bænheyrt hefur. Og alldrei einn sinne verdur hier med nöckru Orde þess gieted / ad Menn skule Heilaga Meñ akalla.

2 Næst þessu fyrerbydur og bannar Ritningen þad openberlega / Deut. 6. Gud þinn Drotteñ skalltu tilbidia z hon um

um alleina þiona/ Esa. 48 Cap. Mijna Dyrd vil egønguum ødrum gieþa/ Psalm. 50. Akalla þu mig j þinne Neyd/ Christus seiger sialþur/ Þegar þier bidied/ þa seiged so/ Fader vor þu sem ert a Himnum/ z ct.

3 J þridia mata/ þa er þta Crimen lesę Maiestatis diuinę, ein Smæn + For acktan giørd Haleitre Guds Maiestatis Dyrd / þar Menn leggia ødrum til Guds Tign og Valld/ hans Koronu og Rijkis Stiorn/ Þuiad þesse Nøfn og slijker Titlar/ Auxiliator liberator, Vita, Salus & ct. Ad vera vor Frelsare/ Hialpare/ Lijf + Sæluhialpare/ þad heyrer alleinasta Gude til ei̅ ønguum ødrum Esa. 45. Fyrer vtan mig er eingen̅ Hialpare. So eigum vier og ad setia Tru + Traust ecke a nøckra Skiepnu/ helldur alleinasta vppa lifanda Gud/ Psalm. 31. Vppa þig Drottenn vona eg/ lat mig ecke til Skam̅ar verda/ Eingen̅ verdr ad Skøm̅ sa sem vppa þig treyster/ Psalm. 71. Þu heþur dreiged mig vt aþ Lijþe min̅

ar Modur/ þu ert min̄ Von fra Ungdome mijnum. Psalm. 73. Þegar eg heff ad eins Drottenn/ þa hyra eg huorke um Himenn nie Jørd/ Þo þar vanmegnest bæde Lijff og Sæl/ þa ertu Gud min̄ Hiartans Huggun/ z mitt Hialpræde.

J sama mæta kann og eingenn ad vel ta og giefa huörke Eilijfa nie Stundlega Gooda Hlute/ nema Gud alleina/ Psalm. 145. Þu upplætur þijna Hond/ z sedur allar lifande Skiepnur med þin̄e Blezan./ Psalm. 104. Allar Skiepnur vona uppa þig/ so ad þu giefer þeim þeirra Fædu a sijnum Tijma/ Þegar þu giefur þa safna þær sier/ Þegar þu lætur upp þijna Hond/ þa hafa þær nogleg a Fædslu. Enn eff byrger þu Andlit þitt/ þa skielfast þær. Jacob. 1. Villest ecke gooder Brædur/ Allar goodar Gaaffur koma ad ofan fra Fødurnum Liossins/ hia huörium ad eingenn Umskipte eru Liossins og Myrkranna.

J fiorda

4. J fiorda mata/ba er Bæna akall til Heilagra / huert a mote Arnadar Embætte vors Herra Jesu Christi/ Þuiad hann alleina er vor Fyrerbonar Madur og Arnadar Madur/ Rom. 8. Hann situr til Guds hægre Handar og Bidur fyrer oss/ 1. Johañ. 2. Vier høfum eirn Fyrerbonar Mañ/ hia Fødurnum Jesum Christum þañ Riettlæta. 1. Timoth. 2. Einasta eirn er Medalgøngu madur a mill Guds og Mannaña/ Madureñ Jesus Christus. Þesse Madur enn eingeñ añar/ og ecke nøckur Skiepna kann ad vera nalægg j øllum Stødum j Christneñe/ heyra Bæner Riettruadra/og vita jnstu Anduar þaner Hiartaña/Math. 28. Ego sum vobiscum/ Eg er hia ydr alla Daga. Þuiad j þessum Mañe Christo er Mañdom leg Nattura personulega sameingd vid Guddomeñ/ og er vpphafiþen til Guds Maiestatis hægre Handar/ hefur medtekid allt Valld a Himne og a Jordu. Slijkt gieta adrer Heilager ecke giört/ Esa. 64. Abraham þecker oss ecke/ Jsrael veit eckert af oss.

J simta

5 Í fimta máta / þa er þeim Heilög-
gu sialfum þetta til hinnar stærstu Van-
æru / þegar ad þeir eru tilbedner / Þulad
Einglarner sialfer vilia ecke læta til bidia
sig / Apoca. 22. Og ecke hrosa Heilager
sier af þui / ad þeir hafe forþienad Hime
rijke / helldur seigia þeir aller med hinne
sælu Maria / Han hefur veitt mier myk
la Myskun / og med Jacob / Minor Sum
Domine / Drottenn / minne er eg og omak
legur allra þinna Myskunsemda / sem þu
hefur mier veitt. So langt er þad fra / ad
þeir vilie taka þa Æru fra Christo sem
hönum ber ad hafa / huörn þeir höfdu so
kiærann / a medan þeir lifdu j þessum Hei
me / ad þeir gæfu Lijf og Blod vt fyrer
hann. Eg vil ecke tala þar vm ad Heilag
er skylldu vera Myskunsamare / enn sa o-
þrotnande Brunnur allrar Myskunar / vt
af huörs Nægd vier faum aller Gratiam
pro Gratia, Naad fyrer Naad / huör ed
Matth. 11. Kallar og seiger / Komed
aller til mijn þier sim erfided / z erud Þun
ga þiader / eg vil Endurnæra ydur / vm

huørn

huorn Pistillen til Hebreos talar so/ Nu hlaut med øllu ad verda lijkur sijnum Brædrum/ so hann yrde Myskunsamur/ og eirn Trur Kieñemadur fyrer Gude/ Vier høfum ecke þann høfud Kiennemann/ sem ecke kann ad hafa Medaumkan med vorum Veykleika/ helldur sa sm reyndur er a alla Vegu so sem vier/ ad fraakenne Syndeñe/ Þar fyrer lætum oss ganga fram j fullu Trauste/ fyrer Nadarstolen/ so ad vier ødlijst Myskun/ og finnum Nad a þeim Tijma þegar oss liggur a/ Hebre. 2. Z 5.

6 Ad sijdustu/ þa hefur þetta alldrei vered vanalegt j Guds Christne/ huørke j Gamla nie nyia Testamentenu. J Pistilenum Jude lesum vier/ ad Diöfulleñ þrattade vid höfud Eingelen vm Lijkama Moysis / Þad er ad skilia/ Diöfull villde læta vita huar Lijkame Moysis være grafeñ/ so þar af mætte koma Hiagudadyrkan/ med Pilagrijms Gange/ eda annad þuilijkt/ Eñ Michael suarar hönum/ Gud straffe þig Sathan. Og j fyrre Tijd

enne

eñe hafa aller sanner Lærefedur Gudlegs Ords / soddan Villu og Vantrunad strafs ad / og mællt þar a mote / Lactantius, Chrysostomus, Hilarius, Augustinus Epiphanius, og fleire adrer / Og einkum þa seiger Epiphanius so / Su Sæla Maria hefur sañarlega vered Heilóg / enn ecke var hun Gud / Sañlega er su Sæla Jomfru Maria alls Heidurs verdug / enn ei skal hana tilbidia / Þuiad hũ tilbad sialf þñ / sem af heñe fæddur var / Huór Spamaña hefur nóckurn Tijma kient ad til bidia Kallmann / auk helldur Konu ꝛ Heidra skulu Meñ þa Heilógu Mariu / Eñ Gud Fódur Son ꝛ Heilagañ Anda skulu Meñ til Bidia.

## Bevijsingar Papista / huar med þeir þegra og þorsuara þessa þeirra Villu.

Þad fyrsta þeirra Argumentum / a Comparatis, af Lijkingũ / Epterdæmum er teked af Vijsu og Vana þessarar Veralldar. J Konga Hóllum ꝛ a Herramanna Hoofgórdum er ecke Sidur / ad huór ꝛ eirn hlaupe jafnsnart fram fyrer Herra ꝛ

Hófdingia

Hőfdingia/ Helldur hlytur hañ ædur fyrr ad vtuega sier þann sem Herranum er kuñugur/ og j Vingan er vid hañ/ ad hañ tiae hans Mal/ og hialpe hans Sők og Malefne til hins besta/ J sama mata hæfer ecke ad huőr og eirn trante strags fram fyrer Gud Drotteñ vorn sialfann/ Helldur skal hañ ædur bidia Heilaga ad bera fram sijn Mal og Naudsyniar/ og vera sinn Fyrerbonar Madur og Medal Gangare fyrer Gude. Enn hier suarast so til. Hos. 11. Cap. seiger Gud Drotteñ/ Eg er Gud/ eñ ecke Madur/ Esa. 55. Mijnar Nuxaner eru ecke ydar Nuxaner So vijdt sem Himeneñ er fra Jordune/ so langt eru mijnar Nuxaner fra ydrum Nuxonum. Enn huad Guds Nuxaner eru vm þad sanna Bæna akall/ og huőrneñ hann vilie tilbedeñ verda/ þad sama hefur hann j sijnu Orde openberad. Þar nu Papistar vijkia fra þessu sama Orde sem Gud hefur openberad/ og vilia dæma vm Gud epter fraleitum Sid + Vana sem er og fram fer j Hőllum og Hoofgőrdum Konga og Hőfdingia/ þad sama er eiñ fra=

frabær Heimska. Enn þo Veralldleger Kongar Höfdingiar og Herrar giöre þetta/ad heyra ecke sialfer Klaganer sina Undergiefena/ helldur bifala þad ödrum/ þa giöra þeir Oriett þar vtj/Þui þad giöra þeir af Rijkelæte/ Metnade/ Lete og Forsomun/ ad þeir nenna ecke ad giöra Skylldu sijns Embættis/og þad þr leita alleina epter ad hafa Vellystingar ꝛ gooda omakslausa Daga/ Enn einhuórt eitt sinn kiemur þad/ ad þeim verdur þetta nogu þungt ad forsuara fyrer Gude/Og huórt Gagn þeir Undergiefnu hafe af slijkre Höndlan/ þad er auglioſt. Þar fyr er sagde eirn fatækur Madur so/þa hann j riettre Sök kunne ecke ad fa Iusticiam, Lög og Riett/hia sijnum Herra og Yfervalldе / og Malenu var velkt og vinglad fyrer hönum/ og hönum var vijsad fra einum Domara til annars/ Oh Herra Gud (sagde hann) ef þad geinge so til j Himnenum/ og vorum Bænum være so vijsad fra einum til annars/ꝛ þær kiæme so seint fram fyrer vorn Gud ꝛ Drottin/ þa være þad vtgiört vid oss. Þuiad adur enn vor Sök og vort Malefne kiæme

fyr

fyrer Gud/ þa værum vier fyrer löngu fordiarfader og til Grunns geingner/ etc.

# Aunnur Bevijsing
## Papistanna.

Lijtelæte lijkar Gude/ og þocknast hönum vel/ Nu er þad Lijtelæte ad hlau pa ecke strax fram fyrer Gud/ helldur vnd eruÿsa Heilögum sijnar Naudsyniar/ og fa af þeim ad bera þær fram. Soddan skiedur af Lijtelæte/ þar fyrer er Bæna akall til Heilagra Gude þægelegt.

Andsuar.

Þad Lijtelæte þocknast Gude ecke/ sem vier sialfer vpp byrium an Guds Ordz/ og þui j mote/ helldur þad Lijtelæte sem Gud heimter ad oss/ Sem er þetta Ad vier jatum og medkiennum vorn Overdugleika fyrer Gude/ og vitum þad ad bæde vier og aller Heilager erum fyrer Gude syndugier/ og faum og odlust Nad z Syndanna Fyrergiefning/ Sälu leg z Eilijf Giæde/ ecke fyrer vera Forþienustu eda annara/ helldur alleinasta

H . fyrer

fyrer søkum Jesu Christi Naadar og Mykunar.

# Pridia þeirra Beuiising er þesse.

Huørn Heidur Menn veita Pienara num/ hñ veiteſt Herranũ ſialfum/ Math. 25. Huad þier hafed giórt einum af þeſſ um Minſtu/ þad hafe þier mier giórt/ Þar fyrer verdur þetta Bæna akall Hei lagra Gude ſialfum til Heidurs.

Andſuar. Þad a ad vera ſoddan Heid ur ſem Pienaranum hæfer ad hafa/ Þui ad/ ef Madur vill ſetia Pienarann yfer Herrann/ þad mun Herranum j ónguann mata vel lynda. So er ꝛ lÿka j þeſſu Ef ne/ Þegar Meñ heidra Guds Heilaga/ ſo ſem hæfelegt er epter Guds Orde/ þ ma Gud vel lÿda/ Enn vilie Menn ſetia þa j Guds Stad/ akalla þa og til Bidia þa/ huór Heidur huórke hæfer Mónnum nie Einglum/ helldur alleina Gude ſialfum/ Þañ Heidur kann Gud ecke lata ſier lynda nie lÿka.

# Fiorda Beuiiſing.

J gam-

J Gamla Testamentinu hafa Heilager opt beded so/ Drotten/minstu a þijna Pienara/ Abraham/ Jsaach/ Jacob/ Item/minstu a þinn Pienara Dauid/ z Myskuna oss/ So meigum vier og j nyia Testamentenu seigia/ Drottenn myskuna oss vegna Peturs/ Pals og annara þinna Postula z Heilagra.

Andsuar/ Þetta eru Figuratę Locutiones, sierdeilis Mallyska j Ritningūne og hafa þeir j gamla Testamentenu ecke meint Personu Abrahams/Jsaachs/ Dauids þar med/ helldur þann Medalgang/ æran sem Abraham og Forfedrǫnum var fyrerheiten/ og er Meiningen/ Minstu a Abraham/ Pad er/ a þad Fyrerheitna Sæde sem þu fyrerhietst Abraham/ j þu ǫrid þu vid Abraham og allt Mannlegt Kyn hefur bunded þañ Sattmala/ ad j þui Sæde skyllde Blessadar verda allar Pioder a Jǫrdune/vegna þess Sædis ver tu oss Lijknsamur og Nadugur.

## Fimta Beuiising Papista er þesse.

Luc. 16. akallar sa Rÿke Madur Abraham vor Audlóngin / enn ecke Gud / Þar fyrer meiga Menn og so lijka akalla Heilaga: Andsuar.

Af þeim Fordæmdu eigum vier Christner Menn ecke ad læra huórneñ vier eigum Gud ad bidia / Þeir flyia og fordast Gud so sem eirn reidañ Domara / enn vier hófum frijañ Gang til Guds / og góng um fraiñ j fullu Trauste fyrer Nädareñar Stol / Hebre. 5. Sómuleidis og eirneyer ódru vijs hattad um þann Rÿka Mann og Abraham / enn um oss og þa Framlidnu Heilógu. Þar sier huór añañ / og talar vid annañ / Enn vier kunnum j þessum Heime ecke ad sia Heilaga / ecke helldur þeir oss / Esa. 64. Abraham þecker oss ecke / og Israel veit ecke af oss.

## Huørn Heidur eiga Menn þa ad veita Heilogum Framlidnum ?

Papistar giefa oss Skulld / og seigia ad vier vanheidrum þa Heilógu Guds Pijslaruotta og adra Heilaga Guds Aast

alne/med þui vier vilium ecke lata tilbid
ia nie akalla þa/Enn þeir giöra oſſ hier
vtj Oriett / Þuiad alldrei vilium vier
vanheidra þa/ ſem Gud ſialfur heidrad
hefur/huórier ad vorn vtualeñ Verkfære
Guds a medan þeir lifdu j þeſſu Lijfe/
og lifande Epterdæme allra Goodra og
Heilagra Mañkoſta og Dygda/og Muſ-
tere hins Helga Anda/ þeir ed vel hafa
bareſt vid Diöfuleñ/ Hollded + Heimeñ/
og nu hafa j hia þeim Riettlata Doma-
ra Dyrdarennar Koronu feinged + ödlaſt.
Sañlega vanheidrum vier þa ecke/helld-
ur minnuſt vier a þeirra Bleſſudu Sæler
med allre Virdingu/höllddum + þeirra Lij
kame og Bein Heilög og Virdugleg/+ vit
um ad Sælernar eru ecke alleinaſta Guds
Sköpun/helldur og eirneñ Lijkamarner/
þeir eru + lijka Endurleyſter af Guds Sy
ne/og j Heilagre Skijrn med Guds Son-
ar Blode þuegner/og med Heilögum An-
da til eilijfs Lijfs jnnſiglader/þeim hefur
giefeſt + veitt vered Holld og Blod Chri-
ſti j Sacramentenu/ ſo ſem Sælunne.
Þar fyrer ſeiger Ireneus ſa gamle Lære-
fader ſo/Impoſſibile eſt Corpora noſt-

ra manere jn Sepulcris, cum ſint nutrita corpore & ſanguine Filii Dei, Pad er/ Omøgulegt er/ ad vorer Lijkamer ſie eilijflega j Jørdunne/ helldur hliota Pr vpp aptur ad rijſa til Lijfsins/ med þui þeir eru nærder med Guds Sonar Hollde og Blode.

Ecke lóſium vier og helldur Mynder Heilagra/ eda Mælverk/ ſo ſem ad gióra Sacramentiſtar/ þeir huórke kunna ad lijda Mælverk nie Mynder Heilagra/ j Kirkium eda Sófnudum/ Puiad/ Quod doctis eſt Scriptura, jllud vulgo eſt pictura/ Pad er/ Huad Lærdum er Ritningen/ þad er Olærdum Lijkingen.

Þar eru og allvijda halldnar Hatijd er Heilagra Poſtula/ j Kirkium vorum (ſeiger D. Martinus) og hier vm hófum vier Guds Ord/ Pſalm. 112. Peim Riettlæta mun alldrei gleymt verda/ Jtem/ Daude heilagra er Dyrdarlegur fyrer Drottne. Vier hófum Dæme heilagrar Ritningar/ þar Forfedrañа verdur j þui gamla og nyia Teſtamente mióg Heidarlega minſt. Chriſtus helldur mijked af Johañ Baptiſta

Baptiſta. Pſalm. 105. 106. Acto. 7. Hebre. 11. Stendur ſkrifad vm þau ſtoru Verk Heilagra / og þeirra Lof. Huad Gud hañ nu bydur oſſ / þad veitum vier og j tie lætum vid Heilaga ómotmælanlega.

Enn jafnframt þeſſu / þa bliotum vier ad giæta vel þar ad / Ad vier vijkium ecke fra Guds Orde / og giórum ecke nóckurn Hlut þui j mote. Chriſtur avijtar Phariſeana / Matth. 23. Ad þeir vppbygde Grafer Spamañaña / enn Lijſlietu þo þa Riettlætu / og fyllde ſo þar med Mæler ſinna Forfedra. Alijka gióra vor er Notſtódu Meñ / Papiſtar / Þeir heidra Grafer og Bein Framlidenna Heilagra / eñ þeirra Tru og Lærdom hata þeir og offſækia / og deyda og drepa alla þa ſem hallda ſier þar vid. Vier lætum Guds Ord vera Lios og Lampa fyrer vorum Footum / Pſalm. 119. Og veitum Heilógum Heidur / med þremur hættum.

1 Fyrſt lofum og prijſum vier Gud j hans Heilógum ſem þar ſtendur / Pſalm. 150. Þad er / Vier jatum og vidurkieñum / og prijſum Guds ſtora Haleita Vel-

H iiij. giór-

giörninga sem hañ hefur Verölldunñe synt / veitt fyrer þesse sijn Heilögu Verkfære/ sem eru Guds Heilager/ bad hann hefur alla Tijma fyrr og sijd sier Christelegre Kirkiu safnad af Mañkynenu ednr j bland Mañkynsins/ og hefur a öllum Tijmum vpp vaked Dasama Dyrlega Menn og Heilsusama Lærefedur/ hefur giefed þm̃ Krapt af Hædönum/ og hefur lated sitt Ord og Evangelium fyrer þa vt vm allañ Heimeñ vtberast og vijdfrægiast/ so þ er nu komed til vor/ So ad vier erum nu ordner Nuttakarar Arþsins Heilagra j Liosenu/erum þrelsader j þra Nøþdingia Myrkranna/ og flutter j Rijke hans Elskulega Sonar/ j huørium vier høþum Endurlausnena/ þyrer hans Blod/ sem er þyrergieþning Syndanna. Fyrer þtta losum og dyrkum vier Gud sierdeilis og einkum/ huiad slijkt eru ecke Verk Heilagra/ helldur þeß Eilijfa Guds Sonar/ so sem S. Pall vottar/ Eph. 4. Hañ er vpp fareñ j Hædena/og hefur Mönnum Gæfur giefed/ Suma hefur hann sett til Postula/suma til Propheta/ suma til Evangeo

Kangelista / sinna til Hirdara og Lærefedra.

Vier samañ berum vorn Lærdom ꝛ vora Jatning vid Lærdom þeirra Heilögu Postula / Og af þui vier finnum þad allt vera samhlioda vid Lærdom Heilagra Postula / þa höfum vier vissa ofallvallta Huggun/ad vier erum Lider ꝛ Limer þeirrar söñu Postulegrar Kirkiu/ꝛ öktum ad öngun huad Pauen j Rom ꝛ hñs falsker Brædur dæma vm oss.

Vier hugleidum og eirneñ Lijfsögur þeirra Heilögu Guds Aasinna/og þegar vier finnum þar jnne/ þeirra Veykleika og stor Misfelle(so sem kieñer oss Dæme Davids og annara fleire) þa lærum vier þad þar af/ ad eingeñ Madur kuñe fyrer sijn eigen Verk eda sinn Heilagleika ad verda Saluholpen/ helldur alleina fyrer Mñad vors Herra Jesu Christi/ so sem aller vorer Forfedur/ Act. 15. Af þeirra Aga og Tyftan þegar Gud hefur tyftad þa/ þa lærum vier ad þeckia Guds Myskunseme/ ad hann leggur ecke eins Straff og Refsing a sijn Börn/ so sem a þa Ogudlegu/ helldur tyftar hañ þa med Venden

um / enn siñe Náð og Myskunsemi hñ ecke fra þeim / Hañ lætur sinn Sattmála ecke þriota / og ei helldur sijn Fyrerheit bregdast / Psalm. 89.

Heilagra Maña margfalleg Kross og Motgangur / sem þeir lided hafa hier j Heime / hañ amiñer oss a þad / huad Drottenn med þeim hefur gjört / sem Dæ samlega Drotteñ hañ fer med sijna Vtvallda / Psalm. 4. Og huörsu þad hañ verndar sijna Christne an mannlegrar Hialpar / alleina med sijnum styrkua Arme og mattugre Hende.

Þeirra Dyrdarsamar Frelsaner (so sem þa Gud frelsie þa þria Sueina wr Babilons Ofne / og Petrum wr Myrkua stofu) þær syna oss Matt og Krapt Almattugs Guds / þad vier höfum Gud þañ sem hialpar / og eirn Drotteñ / huör ed fra Daudanum frelsar / Psalm. 63.

Ad sijdustu / þa er þeirra Daude og Pijslarvætte / þeirra hin mykla Hugarhreysste / þeirra Stödugleike og Styrkur j Kuölum og Pijslum / þad er allt saman ein viss og omotmælanleg Bevijsing / ad þeirra Lærdomur og Meiñingar sie eilijfur Guds Sañleikur / og þad ad epter Þeta

ta Lijf hliote vissselega ad koma eitt annad Lijf/j hvöriu Gud mun epter Riettlæte sijnu/giefa þeim Fögnud og Glede fyrer vmlidnar þessa Heims Eymder og Pijsler.

J annan mata höllдum vier mijked vt af Personum þeirra Heilögu ♰ prijsum þa/ fyrer þad/ ad þeir hafa vered truer Guds Þienarar/ Matth. 25. Ad þeir hafe behallded Trunne/ 2. Timoth. 4. Ad þeir hafe geinged j giegnum margar Harmkuœlingar/ Act. 14. Og þueiged sijn Klæde j Lambsins Blode/♰ eckе elskad sijnar Sæler allt j Daudan/Apoc. 7. Og vier oskum þeim alls Goods/Lijkömönum rosamlegrar Huijldar/en Sælunum eilijfrar Glede og Fagnadar i Himerijke/So sem almenneleg dagleg Ræda er Manna a mille/ þa þeirra Framlidnu gieted verdur/Gud gledie hans Sal/Gud giefe hönum gledelega Vpprisu. Þeir i gamla Testamentenu badu so/Requiescat Corpus in pace, & Custodita sit anima in Fasciculo viuentium, apud Dominum. 1. Reg. 25. Þad er/Huijlest Lijkamen j Fride/ Enn Sælen sie geymd j Byndе-

Byndene lifande Maña hia Drottne.

J þridia mœta / setium vier þa hel lögu off til Epterdœmis og Fyrermynd-ar / j Trunne / Lifnadenum og Framferd-enu / þeir trudu a Christum / elskudu hañ af öllu Hiarta / forlietu alla Hlute i Hei-menum hans vegna / lifdu Heilaglega og Gudlega / lidu Kross + Motlæte med stor re Polinmœde / lietu önguan Voda / nie nöckra Hæskasemd og ecke Daudan fœla sig fra Christo / helldur voru stadfaster og stödnger allt j Daudann / og eru so burt sofnader med Christelegum Dauda + Af-gange / þessum þeirra Dœmū eigum vier ad fylgia. Og þetta er sa Heidur / og su Æra + Vegsemd sem Heilögū ber ad vei-tast epter Guds Ords Hliodan / sem nu er sagt.

Hactenus D. Martinus Mirus.



# Aunnur Høfud Grein
# Um Enda Ver alldarennar.

Spurning.

## Mun Heimur þesse hafa Enda?

Andsuar.

HEir sem kølluduſt Epicurei/ Ogudlegu Spottárar og adrer Athugalauſer og halfkriſtner/ hállda fyrer Spott og Athlátur/ þegar þeir heyra talad um Enda þeſſarar Veralldar/ So giǿra og lýka þeir Philoſophi og Veralldar Vitringar/ þeir hallda ad Heimur eñ ſie eilijfur/ og mune eilijflega ſtanda/ Enn vier vitum ad hañ er forgeingelegur og mune hafa Enda.

## Af huøriu veiſtu þad.

Su Heilaga Ritningin / og Ord hins Heilaga

Heilaga Anda þau seigia þad og votta.
Og med þui ad allt annad er vpp fyllt og fram̃ komed / sem ædur er fyrer sagt og Boded j Ritninguñe / So mun ꝫ. þetta viss vlega skie og fram̃ koma sem j Heilagre Skrift og j Guds Orde skrifad stendur vm Verralldarennar Enda.

# Beuiisa þad med Heilagre Skrift.

So sem Heimuren̄ hefur haft Vpphaf / og sia ma j fyrstu Moysis Bok / 1. Cap. Hann hefur haft Vpphaf / so mun han̄ og eirnen taka Enda.

Sa Heilage Dauid seiger / 102. Psa. Himnarner eru Verk þinna Handa / þr munu forganga / enn þu blijfur / Þeir fyrnast so sem Fat / og þeir vmskiptast sem Klæde / þa þu vmbreyter þm.

Esa. 51. Himnarner munu forganga so sem Reykur / og Jorden̄ mun fyrn ast so sem annad Fat.

1. Pet. 4. Ender allra Hluta er so sem

sem komenn.

2. Pet. 3. Himnarner þeir nu eru og Jørdeñ vardueitast þyrer hans ORD/ og geymast til Elldsins/a Deige Domsins z Fyrerdæmningar ogudlegra Manna. Enn Dagur Drottins mun koma so sem Þioþur a Nottu/a hvørium Himnarner munu þorganga med storū Brest um/enn Høþudskiepnurnar munu bradna aþ Hita/ Og Jørdeñ og þau Verk þar inne eru munu uppbrenna.

J Giórninga Bok Postulanna/ 3. Cap. seiger S. Petur so/ Jesum Christum ber Heimenum til siin ad taka/allt til þeirra Stunda/ þa aller Hluter skulu Endurskickader verda/sem Gud heþur talad þyrer Munn sinna Heilagra Spamaña/ j þra Veralldareñar Upphaþe.

Matth. 24. Seiger Christur vor Lausnare/ Himen og Jørd munu þorganga/enn mijn Ord þorganga ecke.

# Nær mun Veralldarenñar
## Ender þa koma ?

J Gudspiallenu Matthei 24. Cap. Spyria Lærësueinarner Herrañ Jesum ad þessu hinu sama/ Enn hann giefur þns soddan Suar / Af þeim Deige og af þe̅re Stundu veit eingen/ og ecke Einglarner a Himnum/ helldur alleina minn Fader/ huör þad sett hefur j sialfs sijns Magt‑Vellde/ Act. 1.

Eins og hañ epter sijna Vppriſu (þa Postularner hallda fast a og villdu vita nær þ̅ta skie skyllde) þa suarar hñ þm̅ so Ydur ber ecke ad vita Stunder nie Punc ta Tijmanna/ sem Fadereñ vill hafa j sialfs sijns Valldе.

S. Pall seiger/ 1. Tessal. 5. Vm þañ Tijma edur þa Stund/ er ecke þorf ad eg skrife ydur/ Kiærer Brædur/ þui þier vited sialfer/ ad Dagur Drottins mun koma sem Piofur a Nottu.

Vt af þessu er nu berlega liost/ ad ecke er nöckrum Mañe mögulegt ad vita/ nær og huönar Ender þessa Heims koma

mnn. Þar fyrer eru þeir Forvitnu Sier- visringar einskis Lofs verder/ þeir ed epter þeirra storre Konst og Kunnattu lataſt ranſaka vilia Guds Leyndar doma/ og þa Hlute grunda sem þeir vita/ ad Gud vill oſſ ecke vita lata.

## Enn huar þyrer vill Gud ecke/ ad vier ſkulum vita hans Tilkomu Tijma og Enda þeſſarar Veralldar?

Pad ſkiedur þar fyrer/ ad Gud vill ſo vera lata/ enn ecke ödru viſs. Herrann Chriſtur ſetur og eina adra Ordſök þar til/ ad vier ſieum þeſſ helldur vakande/ og varer vm oſſ/ enn ecke Athugalauſer/ Hirdulauſer/ Huad ocſad munde ſkie/ ef vier viſſum Stund og Tijma Herrans Chriſti Tilkomu. Hier a og heima ſu Epterlijking/ Matth. 24. Luc. 12. Vm þa Þienara ſem bidu epter Heimkomu ſijns Herra

## Kunnum vier þa önguan Hlut ad vita aþ þeim Tijma/ nær Heimurenn ſkal hafa Enda/ og Guds Sonur vill koma aptur?

J. Nockud

Nöckud lÿted vitum vier þar af/ enn ecke allt. Vissann Tÿma/ Aar eda Dag kuñum vier ecke ad vita/ þo marger hafe hier um skrifad og til Onytis sier Omak giört þetta ad ransaka. Sumer hafa til gieted ad seinaste Dagur munde koma þa lided være fra Christi Hingadburd/ 1530. Aar. Adrer/ Þa Datum være 1588. Þa enn adrer Añó/ 1600. Þa eñ nöckrer/ Añó 1612. Eñ allt er þetta oviist ꝛ fallvallt. Nöckrer eru þeir sem gieta til/ ad so mörg Aar sem lidu fra Heimsins Upphafe/ allt til Noaflods/ so mörg Aar mune lyda fra Hingadburde Christi eda hans Uppriisu til Veralldarennar Enda. Nu voru fra Upphafe til Flodsins/ 1656. Aar/ Þui meina þeir ad so mörg ar mune vera fra Christi Fædingu eda hans Uppriisu/ ꝛ til Doms Dags/ og þessa Meining hafa þr teked af Christi Ordum/ þar hañ seiger/ Matth. 24. So sem þad skiede a Dög um Noa/ Þeir ætu og drucku/ þeir Kuon gödust ꝛ Giptust/ allt til þess Dags Noa gieck j Aurkena/ ꝛ þeir Hugleiddu eckert/ þangad til Floded kom og tok þa alla burt/ Eins þa mun verda Tilkoma Mañ

sins Sonar: Enn ecke setur Christur hier fram̃ neina Aara Tölu/ akvódeñ Tijma/ eda huórsu mórg ar skule vera til seinasta Dags/Helldur skyrer hañ fra/huórnen til mune ganga a seinóstum Tijmum Veralld areñar/Og huórsu ad Meñ mune þa vera Ogudleger og Athugalauser j óllum Hlutum.

Sumer vilia hallda/ ad so mórg ar sem Christur lifde j þessum Heime/ so mórg Jubel ar/ edur Fagnadar ar skule vera til Heimsins Enda. Nu voru j huór lu Jubel are/ 50. ar/ Þad reiknast alls 1675. ar.

Flester af þeim sem hier vm hafa skrifad eru j þeirre Meiningu/ad In Sexto millenario, Þad er/ a Þui Sexþusunda sta Aare epter Heimsins Upphaf ad reikna/ þa mune Verólldeñ hafa eirn Enda/ og þeir hafa þetta fyrer sier/ Ad med Þui Gud skapade Himen og Jord a sex Dogum/ og eirn Dagur fyrer Gude er so sem þusund Aar/ þa skule Verollden ecke standa leingur enn sexþusund Aar. Og hafa þesser fyrer sier Malagrein

Hwssins Elia/ sem er besse.
Tuo Pusund Aar / eyde.
Tuo Pusund Aar/ Logmaled.
Tuo Pusund Aar Dagar Messie/ Og verde sa Tijme ecke fullur / ba skiedur pad vorra Synda vegna / sem ad eru myklar.
Og Herran Christur talar sialfur vm pa Daga Matth. 24. Ef ad peir Dag ar yrde ecke stytter. Pa munde eingen Mad= verda Saluholpen. Og Luc. 13. Ef ad Drottin stytte ecke þessa Daga / þa yrde eckert Holld holped. En vegna wtualdra verda þeir Dagar stytter.
En Herran Christus og hans Salu Postular/ þeir hafa fyrersagt nockur Teikn sem skie skyllde/ fyrer þann seinasta Dag Huar af Fromer Christner Men hafa ad merkia/ad sa seinaste Dagur er ecke langt fra Dyrum/ helldur nalægur.

## Huør eru þa þau Teikn/ sem skie skulu adur enn þad Ender Veralldarennar kiemur ?

Herrann Christur og hans Heilager.

Postular hafa þau framsett/ecke allfa/ þar med avijsande/ ad þau Teikn munde ecke verda eins hattar eda med einu mote/ Helldur mune sum skie a Himnum/ sum i Sionum/ sum a Jördune/ sum a medal Mannanna/ So sem hier vm lesa ma/ Matth. 24. Marc. 13. Luc. 21. Og a medal þessara Teikna heyra sum til Foreydslu Borgarennar Jerusalem/ Enn flest öll heyra þau til Enda Verralldarennar. Og Herran Christur hann blandar saman þessum Teiknum/ af þui ad Lærisueinarner spurdu huörs tueggia vnder eins/ bæde ad Foreydslu Borgarennar Jerusalem/ ꝛ lijka ad Enda Verralldarennar. Og sannarlega þa er su hryggelega Foreyding Borgarennar Jerusalem og alls Gydinga lyds so sem Fyrermynd og Speigell Verralldarennar Enda.

Enn Teiknen þau sem fram eru sett eru þesse. Þar munu koma Villumenn og Fals kiennefedur/ Villa og Vantru/ Tuist ꝛ Tuidrægne j Lærdomenum.

Bardagar Strijd ꝛ Hernadar Tijdinde. Offsokn þeirra Goodu ꝛ Gudhræddu: Teikn ꝛ Stormerke a Himnum.

Jardskialftar j ymsum Stödum.
Afergangur Vatna + Sioar.
Hungur + Hallære/+ Dyr Tijd.
Blindleike og hrædelegt Athygaleyse Manna/so þeir mune seigia/Þar er eingeñ Vode a Ferdum/eingen Neyd/Skadar ecke par/ 1. Thessal. 5.
Foraktan og Fyrerlitning Guds Ords.
Affall/Afneitan Truareñar j bia mest um fiölda Mannal
Agirne/Okur:
Ahyggia/Bukforg og Vijl fyrer Mat og Dryck + siundlegre Næringu.
Kiærleikßleyse vid Naungann/ hia allmörgum.
Sialfann sig ad elska/ og sitt eigenlegt Gagn ofmiög ad rækia.
Nidurbrycking og Þrælldomur þeirra Vndergiefnu.
Vöxtur og Aukning allra Synda Glæpa + Lasta.
Auglysing + Openberan þess Romuerska Antachrists.
Og nu med þui ad allt þetta er skied + fram̄ komed/+ skiedur Daglega/ + sumt er j Manna Miñe skied/pa er auglioßt/ ad

ad Guds Sonar Tilkoma og sa seinaste Dagr sie vissulega ✝ oefad fyrer Höndum.

# Meining Herra Johañis Mathesij/vm þañ sijdasta Dag/ꝛ þau Takn/ sem skie skulu ꜳdur fyrer fram̄/ Teken af hans. Vtleggingu yfer Euangelium. Luc. 21.

Nu skulu hier hugleida/ þa Aaratölu/ og þau Teikn til Doms Dags/sem oss verdur j Heilagre Ritningu til vijsad.

Pad er afgömul Kieñing ✝ Meining Gydinga/epter Mꜳltꜹke Elie/ Ad Veralldeñ skule standa j sex þusund Aar. Tuo þusund Aar skule hun vera j eyde/ þad er/ ꜳn Lögmꜳls. Lögmꜳled skule vara j tuo þusund Aar. Og tuo þusund Aar skule Dagar Messie vera/ þo skule þeir Dagar vegna Vtualdra styttast. Þessare Meiningu og Mꜳls grein samhliodar vel þad/ ad Gud skapade Himen og Jörd a sex Dögum/ eñ huijldest a þim siöunda Deige. Nu seiger S. Petur/ þa þañ talar vm þañ seinasta Dag/ ad einn

Dagur sie fyrer Drottne sem þusund Aar og þusund Aar so sem eirn Dagur / Huar med Postulen avijsar oss / og vt byder og legga þa sex Daga (a huórium Veróllden var skópud) vppa Nials grein Elie:

Veróllð þesse mun standa j sex langa Daga / það er / j sex þusund Aar / Eñ þau seinustu þusund Aareñ / þau munu styttast vegna Vtvaldra / so sem sialfur Christur seiger / Og sa eitlyse Puottdagur eda Huyl dardagur hañ mun vpp byriast ad fyrerfarande Rúollde / epter Ritningarennar Vijsu / og epter Plagsið Gydinga / sem all ar Hatyder vpp byrindu ad kuóllde fyrer.

Nu med þui ad Veróllden hefur nu stadeð 5562. Aar / nu ad reikna / Año 1601 Epter riettre mara Tólu / Þar af er vijsele ga augliost / ad vier erum ecke langt fra Heimsins Enda / So sem S. Paall fyrer 1500. Aarum kallar sijna Daga Veralldar Enda. Og S. Johannes nefner sijna Daga þa seinustu Tyd eda Stund Verall dareñar: Nu med þui / ad meir eñ 1500. Aar eru liden fra S. Johannis Stundu eda Tijma / þa hlytur Doms Dagur ad vera ecke langt fra. Þuiad epter þui sem

Dani-

Daniel hefur fyrer spad. Pa ern þar þriar Monarchiur og einualls Rykis Stiorner j Heimenum / fyrer Christi Hing adburd vmlidnar. Enn su fiorda einualls ds Rykis Stiorn sem er þad Romuerska Ryke / j huórrar Upphafe Christur fæddsest / hefur nu staded meir eñ 1900. Aar / og tekur nu miög til ad hnigna / er Maktarlijted og Krankt orded / og stendur a veyk um Beinum. Og þ litla Horn / sem Daniel talar vm / Tyrkeñ er miög Megtugur ordeñ / ꝛ hefur fra þm Romuerska Keisaradome rifed þau stærstu þriu Konga Ryke / sem er Grickland / Asialand / ꝛ Egiptaland / Og sa sáme Tyrke / talar stor Hadungaryrde j giegn Herranum Christo og lastar hañ. Par med þa er sa Syndarenar Madur / sa Romuerske Antachristur openber ordeñ / epter S. Paals Spadome og er fyrer Anda Guds og þad Heilaga Euangelium af allmargra Hiórtum vt drifeñ og burt teken / So er nu Euangelium vt bored og breidt og hreint og klart komed vt vm allañ Heimeñ / ꝛ frañ bored opinberlega fyrer Keisara / Herra og Konga.

Þar med tekur og so eirneñ Kiærleik oreñ ad kolna og vtslokna hia allmörgum/og þad geingur so til eins og a Dögum Noa. Þeir ed Guds Ord kieña ✝ rietteleg a predika/þeir verda af Vinum ✝ Ovinum plægader hædder og hatader/eins og Lot j Sodoma/og Jeremias hia sijnu Folke. Okur ✝ Agirnd geisar vm hia hvörium Maññe/hripsar ✝ dregur ad sier/allt þad hun kann/eins ✝ þa feigur Nladur fer ad Mat. Allar Skiepnr fara til Þurdar/✝ miñka/þar er Strijd ✝ Styriölld j öllum Löndum ad spyria/Pestilentia/Hungur og Dyr tijd er allstadar/öllum Landagiædum Auexte og Jardargroda og Koste fer aptur/ Solen giefur ecke af sier þutlijkann Varma sem Fordum/Meñ na ecke þeim Alldre sem fyrr meir/Þar siast a Himnum hrædeleg Teikn og Vndur/Vindar ✝ Stormar/Vötn ✝ Bilgiur/ giöra Skada j ymsum Löndum/Jördeñ hristest ✝ skielfr vegna okomeñar Olucku/ Menn ganga fram og lifa atþugalauser. Med einu Orde ad seigia/Allar Skiepnur og aller Himensins Krap tar veykiast og fara til minkunar/hræra

sig

sig med Neyd/ Margt af Mönnum vanmegnast af Angist ꝛ fordiarfast med öllu, Þar er lÿtel Tru og Dygd Mañа a medal/ Synder og Glæper vaxa/ꝛ verda ecke refster. O hoof hefur Aferhönd feinged ï Mat ꝛ Alædnade. Snógt ad seigia/ All er Hluter a Himne og Jördu/ hnigna og skrÿda til Skarar/ Aull Magt/ allar Valldstietter fara hnÿgnande/ og eru so sem fallnar/ ꝛ ct. A soddañ Teikn amiñ er oss vor Herra Jesus/ so vier skulum ecke vera athugalauser nie sofande/ eins ꝛ þær favÿsu Jomfrur/ Helldur pryda oss og tilreida vora Lampa/ hafande riettа Tru og gooda Samuisku ꝛ Þolenmæde/ ꝛ a huörre Stundu bwa oss til burtferdar/ so ad vier mættum med Fagnade og goodre Samuisku mæta vorum Brudguma Herranum Jesu/ Þuiad allt þad sem Heilög Ritning hefur inne ad hallda/og skie skal fyrer Enda Veralldareñar/ þ er allt skied og kiemur daglega frañ.

Þad er Meining vel flestra Lærefedra ï Christelegre Kirkiu/ Ad med þui þau Nelldsku ꝛ stærstu Dasemdar Verk Drottins

oftins hafa skied vm Paska eda Vortijma/sem er/Vm þñ Tijma var Heimureñ skapadur/og Adam med/ Þa geingu Israels Syner af Egiptalande/ Vm þann Tijma var Guds Sonur gieteñ z Lijflæteñ/og er med fiølda Heilagra vpp riseñ af Dauda/So meina þeir ad sein asta Guds Verk mune skie vm þennañ Tijma / þa allar Skiepnur endurlifna og fornyast a Jordunne. So sem z her rañ Christus j þessu Euangelio jafnar Tilkomu sinne vid Vortijma z Sumars/ og bydur oss ad taka mark a Blomstrum z Alldine Jardar. Huc vsque Mathesius.

## Huørnenn eiga þa Christner
### Meñ ad skicka sier/og vera vid buner vid Enda Verálldarennar?

Þad kieñer oss vor Lijfe Lausnare Jesus Christur sialfur/ Luc. 21. Þui ad þar bydur hann oss og bifalar/ ad vier skulum ecke læra vor Hiórtu þyngiast af Ofneytslu/Ofdryckiu/Agirnd/ Sorg z

Umbyggiu ſtundlegrar Næringar/ Helldur vera vakande/ ſparneyter / Bænrækner og læta vorar Lendar vera umgyrdtar / Pad er / vier ſkulum vera vidbuner / hafande logande Lampa j vorum Hondum/ og vera lijker peim Mónnum ſem vænta epter peirra Herra / nær hañ mune koma fra Brullaupe / vppa pad ad vier mætt um vera verduger peſſ / ad komaſt vndañ óllu Jllu pui ſem fram̃ koma ſkal / ꝛ ad ſtanda fyrer Mañſins Syne. Vier eigum ad vpp lypta vorum Hófdum/vera glad er og med goodu Giede/ Af pui ad vor Endurlauſn tekur pa til ad nalgaſt.

Vier ſkulum jafnañ og oaflætanlega giöra/ſo ſem hiñ Heilage Jeronymus ſkrifar vm ſialfann ſig/ par hann ſeiger/ Huad hellſt eg giøre/ Huort helldur eg ſeß / et eda dreck/ eda huad eg giøre/ pa pike mier avallt ſo ſem ad hliode ꝛ hliome peſſe Ord mier fyrer Eyrum/ SVRGITE MORTVI, VENITE AD IVDICIVM. Standed vpp pier Dau du/og komed fyrer Domeñ. Ef ad vier hugſudum petta med jafnade og aluarlega

lega/ þa mundum vier ei syndga so andvelldlega sem vier syndgum.

## H. Johañes Gigas/ skrifar so j Vtleggingu þess Euangelij/ 21. Cap:

## Huørneñ eigum vier ad hegda oss a þessum seinostum Tymdar Tijmum/ og bwa oss vid Deige Drottens ?

Med þui ad þesse Dagur mun koma so sem Elldingz/ og so oforuarandis so sm̃ þa Þiofur kiemur/ 1. Tessa. 4. 2. Pet. 3. Þa amiñer oss vor Drotteñ og Lausnare/ hid Trwlegasta og Fódurlegasta/ ad vier sieum vakande og bidiande/ og hófum Vidsmiór j vorum Lómpum/ og lifum jafnañ fyrr og sijd j GVDS OTTA og bijdum so þessa Dags med Truudu Hiarta og goodre Samuisku. Og sierdeilis og einkum varar hann oss vid Agirnd/ Ofneytslu og Ofdryckiu.

Þar fyrer þier gooder Christner Meñ/ Lated Herrans Christi Fódurlega og Hiartanlega

kanlega Aminning ganga ydur til Hiarta/
Fylged ecke þeim mykla Mwg og Mann-
fiölda/ Vakted ydur fyrer Agirnd og Of
neytslu/ skaded ecke sialfa ydur nie ydar
Saler. Ad erfida og Forsorgan ad hafa
fyrer Hwse og Heimile/ Konu og Börn-
um/ þad er ecke fyrerboded/ Helldur skul-
um vier hegda oss epter Reglunne Christi/
Matth. 6. Ad vera jdner j Bænakal
lenu/ truer j Erfidenu/ hafande Aktan
a voru Kalle og Embætte/ vera kyrrlat-
er/ og bifala so Gude vorum Himneska
Fodur allt vort Rad og Efne/ so sem
skrifad stendur/ Psalm. 127. Vier meig-
um ad sönnu j Nafne Drottins/ eta og
drecka/ og giöra oss glada hia goodum
Vinum/ Þuiad Gud giefur Vijn + Bior +
annann godann Dryck/ til ad slöckua Þosta/
til Heilsubootar/ og til Glede og Gam-
ans/ Psalm. 140. Syrach. 32. 1. Tim.
5. + ct. Enn allt þad verdur ad skie j
Otta Drottens/ og an Hneygslunar/ og
ad vier dreckum oss ecke druckna/ galda/
vitlausa/ so sem giöra Dryckin darar.
Osee. 5. Ephes. 4.

Med

Med þui þa Elskanleger / Ad Dags=
ins Drottens hann er vissulega j nand / so
sem vottar Hellög Ritning / So sem merk
sa ma og sia af Himnenum / Jördune / af
Athæfe og Jllsku Manna / Aller Hlut
er fara hnignande / og eru ad Falle komn=
ner / Pad er fæst af Mönum / ad nöckurn
Guds Otta hafa med sier / Þar fyrer bid
eg og aminne hiartanlega / ad Men vilie
læta sier til Hiarta ganga Herrans Jesu
Aminning + hins Heilaga Peturs Postula /
og fyrerlijta ecke Guds Ord nie þesse Tei
kn hins sijdasta Dags / so sem nu giörer
flestur fiölde Manna / Helldur vera vakan=
de / j hugasamer / sparlijfer / med Bæn og
Akalle / med riettre Tru og goodre Sam=
visku / og bijda so epter Auglysingu Dyrd=
arenar hins mykla Guds og vors Lausn=
ara Jesu Christi / Amen.

Og en seiger same Johanes Gigas so.

Þar fyrer þier gooder christner Bræd
ur / Þegar þier siaed / ad þar skie Teikn eda
Undur a Himnenum / j Loptenu / a Jörd=
unne / þa þier heyred sagt fra Dyrre Tijd /

Hungre og Hallære / Ofride / Bardögum / Blods vthellingum / hrædelegum Storm vindum og Vndrum / Villum og Tuidræg ne / ✝ ct. Þegar þier siaed hvörsu ad Kiærleikuren kolnar / Ranglæted vex og Illska medal Manna / Þegar Agirnd og Nidurbrycking þeirra Aumu og Fatæku fer j Vögst / Þegar Blodsynder / Hordomar / Saurlijfe er ströffunarlaust lided / Þa Dramb og Hoffrackt geysar yfer / Ofneyt sla / Ofdryckia / Otru / Oblydne / Fals Suik og Vnderhyggia / Þegar Guds Ord og su Heilaga Embættis giörd verdur fyrer liten / og foröcktud / Þa slijkt skiedur / þa skulu þier vpp hefia ydar Höfud / ✝ hugsa ad þa sie nær vpp fyllt Ranglæte þeirra Epicureorum, Þeir Ogudlegu hafe þa sinn Synda Mæler vppfyllt / Snart mune koma Kalled / Sa Volldugе stercke Gud mune snarliga Enda giöra / a allre Illsku Vondsku og Ogudlegu Athæfe þessa Heims / Eñ oss Aumum Christnum Möñum er seinaste Dagur hin hellsta og stærsta Huggan.

## Um þetta Efne talar Lutherus miøg merkelega z huggunarsamlega.

Þeir sem eru riett Christner (seiger hañ) þeir eiga med riettu ecke ad hrædast þennañ Dag/ helldur vera glader/ z oska hans af Hiarta/ Þuiad/ so leinge þeir lifa j þessum Eymdardal/ þa er þeirra Glede og Nægiudar stund harla lijtel/ Stundum astrijder þesse Motgangur/ stundum annar/ stundum kiemur ein Olucka stundum ønnur/ Þar med hatar þa Heimureñ og ofsæker þa/ Holld z Blod lætur ecke af ad freista þeirra. Ofan a allt þetta kiemur Andskoteñ/ z lætur þa ecke j Fride vera/ setur þeim fyrer Sioner vmlidnar Synder/ giører þær storar z hrædelegar/ blæs þeim j Briost jllum og skadsómum Hugreñingum/ so ad þr verde hrygguer og hrædder fyrer þeim sijdasta Deige og Guds Riettlætis Dome. Soddañ verdur Christeñ Madur ad lijda so leinge sem hañ lifer j þessum Heime. Enn a þeim seinasta Deige/ þa liñer øllu

þessu/ þa verda þeir leyster og frelsader fra öllu Illu/ Þar fyrer kallast þesse Dager j Heilagre Ritningu ENDVRLAVSNAR DAGVR. Fyrer þessar Greiner skulum vier ecke ottast nie hrædast þann Dag/ helldr fagna + glediast vid so glede legan Fagnadar/Auglysingar + Tilkomu Dag vors Herra Jesu Christi.

# Hiartanleg Vidvørun og Aminning Herra Johañis Mathesij/ huörneñ ad huör + eirn Madur skule bwa sig til hins sijdasta Dags.

Siaed nu vel til gooder Brædur/ Vakted ydur fyrer Agirne/ Ofate/ Ofdryckiu/ og vered alla Tijma sparneyter/ og med goodre Forsia til buner/ Vered idner i Bæn + Akalle til Guds/ so þier a huörre Stundu/ huöriu Augabragde sieud bwner vid þeim sijdasta Deige/ og ad koma fram fyrer Mannsins Son med goodre Samuisku:

Oh/ Herra Gud/ Huörsu Dyrdarsamlegur Prijs og Heidur mun þad vera/ ad standa til Guds Sonar hægre Handar/

med öllum Heilögum/ so sem Lider ꝛ Lemer Jesu Christi? Par a mote/ huörsu aumlega hryggelega pad mun til ganga fyrer hinum / huörier eckert Oleum hafa j peirra Lömpum/ pegar Drottens Dyrdar ennar hañ kiemur/ og pegar peir skulu fyrer hönum standa samañ Reikning af öllum peirra Hugsönum/Ordum ꝛ Giördum. Eñ um slijkt hugsar Heimureñ alls ecke/ allt par til hann verdur vijs med sijnum eigeñ Skada. Sæler eru peir(so siñ S. Petur talar)peir ed nu j pessum Heime trúa a pann Krossfesta Christum/ og soddañ Trunadar Traust og gooda Samvisku vardveita/ og alla Tijma med sier hafa j sijnu Hiarta.

## Med huøriu mote skal Dagur Drottens koma/ og huørnen mun pa standa til j Heimenum?

Dagur Drottens mun koma so sem Piofur a Nottu/ og Ender pessarar Ver alldar mun yfer koma pa minst er Von/ ꝛ Meñ sijst varer/ og mestur fiölde Mañа mun sijdst ætla til/ pegar Menn seigia/

Fridur

Fridur/Fridur/ohætt/Einzeñ Neyd/ei er
þórf ad kuñda/ & c. Þa mun Fordiórf
unen skyndelega falla yfer þa a Auga-
bragde/ So sim Christur sialfur seiger/
Luc: 17. So sem þad var til a Døgum
Noa/eins mun þad skie a Deige Mañ-
sins Sonar/ Þeir ætu/þeir drucku/ þeir
gipftust & Kuongudust/allt til þess Dags
sem Noe gieck j Orkena/og Vatz floded
kom og tok þa burt alla. So & lijka/eins
so sim þad gieck til/a Døgum Loth/Þeir
ætu & drucku/ þeir selldu og keyptu/þeir
bygdu og plontudu/ Eñ a þeim Deige
sem Loth gieck vt aþ Sodoma/þa rignde
aþ Himnum Ellde og Brennesteine/og
fyrer for þeim øllum. Med sama mote
mun bad ganga til/a þeim Deige þegar
Mañsins Sonur mun openber verda. Þui
ad enn þo mórg og miog mijkel Teikn og
Stormerke gange vndan ædur fyrer fram
þa munu þeir allfaer verda/sem þ læta
sier til Hiarta ganga/ Flester af Mōñum
munu sla þui j Vind/og hugsa þar ecke
par vm.

# Lutherus.

Vier sem lifum/ og epter erum ord-ner/ vier munum vnder eins med þeim (sem af Dauda vpp vakter eru) vpptek-ner verda/ j Skyen/ mots vid Drotten/ j Lopted/ og munum so hia Drottne verda alla Tijma/ 1. Cor. 15.

Hier vottar S. Paall/ Ad enn þo so sie/ ad Christur/ þa ed hann kiemur a sijd-asta Deige/ finne Heimenn med øllu Diøf-ullegann/ Ogudlegann/ þa mune þo samt vera nøckrer/ sanner riett Christner/ Annars verdur af Christo + Postulonum/ med sod dan Ordum talad vm þann sijdasta Dag/ þegar Christur kiemur/ ad þad er hræde legt ad heyra og lesa. Luc. 18. seiger Christur/ Þegar Mannsins Sonur kie-mur/ meinar þu ad hann mune finna Tru a Jørdunne? Og j ødrum Stad seigest hann mune finna Heimenn/ So jllann og ogudlegann/ eins + hun var a Døgum Noa og Loth/ þa Menn voru jller/ þa þeir ottudust øngua Olucku/ Helldr voru glad-er og kater/ ætu + drucku/ giptu sig/ keyp-tu +

tu og selldu/og hofdu storar Byggingar/ allt til þess Dags Floded kom a Dogum Noa/og til þeirrar Stundar Lots/ þa Ellde og Brennesteine rignde af Himnum ofan + fyrerkom þeim ollum.

Eins mun þad til ganga þegar Christur kiemur. Huort hn̄ sier saman Athæfe Heimsins nu a vorum Tijmum vid Orden Christi/ þañ sier fyrer Augonum berlega/ ad þad geingur so til sem hn̄ hefur sagt. Synder og Glæper ganga so alment yfer ad þar kann ei a ad aukast. Og þ hrædelegast er ad vita og heyra/huorsu ad Heimureñ hegdar + breyter vid þad Heilaga Euangelium/ huort Gud hann hefur nu fyrer þañ sijdasta Dag lated vpp koma so Mijskunsamlega. A eina Sijdu eru Ouiner Ordsins Christi sem þad lasta og Offsækia hid grimlegasta/A medal þeirra Christnu er ecke alleinasta stort O þacklæte/helldur sa mestur fiolde Folks lætur sier leidast Guds Ord/skeyter ecke vm þ. Þar predikad verdur epter þui sem Meñ vilia/ þar er Orded vel komed og þægelegt/ enn straffe Madur vora Vantru og vonda ogudlega Breytne/+ kieñe oss huor

nen vier eigum nu hier epter ad lifa / epter
þad vier erum Truader ordner / huórnenn
oss byrie ad lifa Sparlega / Riettferdug-
lega + Gudlega / þad sama vill ecke hafa
Rwm nie Stad hia oss / Helldur breytum
vier þar þuert a mote / huad hid sama ad
er vÿst og fullkomlegt Teikn og Merke /
ad vier erum ecke Christner / + verdum ecke
Erfingiar ad Guds Rÿke / Gal. 5. Men
vilia ecke Guds Orde hlyda / Menn hafa
Hatur og Leida a þui. Þar fyrer er eg
hrædur (seiger Lutherus) ad þad mune
epter koma / Ad þegar Men straffa og
lasta Synder og Glæpe / ad þar sie ei
Tru nie Gudhrædsla med Mønum / hell
dur Storsynder / Opneytsla / Opdryckia /
Agirnd / Okur / Mordomar / Saurlÿ-
fe / z c. Þar med z lÿka / þeir sem christ
ner lætast vera / þeir munu ecke læta sier
soddan Straffaner lÿka / helldur vtþyda
þær og leggia j þann Mæta / ad slÿkt sie
talad goodra Manna æru poor nær / z þ
sie oþþungt ad bera / Men eige ecke adra
ad skielþa / hræda / helldur ad hugga
þa /

þa/ z c. Huiad vilie Menn granduar-
lega giæta ad Ordonum Herrans Chri
sti og Postulanna/ þa er augsynelegt og
augliost/ ad fyrer Doms Dag mun Hei
mureñ fullur verda med Spottara z O-
gudlega Epicureos.

Kome þa og þad ofan a/ sem ei er
ovyst/ ad þr sem predika eiga Guds Ord
sie sliofer/ liner/ straffe ecke Synder nie
Glæpe/ predike Mönnum j vil/ so siñ huör
tum best lykar (huiad soddan Predikara
vill Heimureñ hafa) þa er þ vte/ þa vill
þad ecke goodan Enda hafa/ þegar Sañ
leikureñ verdur nidre byrgdur/ Lösinn og
Lygum er a loft hallded/ Lygar og Vill-
ur verda forsuaradar og fyrer Sannleik
halldnar: Þegar so langt er komed j Hei-
menum/ ad hañ vill ecke lyda Lios Gud
legs Ords og Vmvandaner/ þa mun hñ
sleigeñ verda med stærra Blindleik eñ nöck
urn Tyma var fyrr vnder Pauadomenum
so þad mun skie epter Ordum Christi siñ
hañ seiger/ ad þad sydasta mun verda ver
ra og argara enn þad fyrsta. Su Reide
K v. huoria

huøria Gud lætur a sijdustum Døgum falla yfer þa Ogudlegu/ hun mun vera hin stærsta/ Heimurenn forþienar þ ecke ødru vijs/ þar fyrer mun þad ganga verr til/ enn þad skiede a Døgum Noa og Loth.

Þo munu samt nǒckrer Riettchristner lifa(seiger S. Pall) þa Christur kiemur/ So sem vier og eirnenn jatum j vorre Tru arjatningu/ ad þar sie christeleg Kirkia/ Su hin sama(seiger S. Pall)mun boda Dauda Drottins þangad til hann kiemur.

## Og enn skrifar Lutherus so yfer þann 3. Cap. Hins seirna Pistils S. Peturs.

Og skulu þier vita(seiger S. Petur) j fyrstu/ Ad a sijdustum Dǒgum munu koma Spottarar/ þeir ed ganga epter þra eigenn Girndum/ og seigia/ Huar er Fyrerheit hans Tilkomu? þuiad sijdan Forfedurner sofnudu/ blijfur allt so sem þ var fra Upphafe Skiepnanna/ etc.

So stendur skrifad j gǒmlum Fræde bok.

Bokum / vm Antachristen / ad a sijdustum Døgum munu Mēñ falla j slijka Villu / ad þeir munu seigia / Þar er eingeñ Gud / Og þeir munu hæda og spotta allt þad sem af Christo verdur sagt og predikad / ✝ af þeim sijdasta Delge / Þetta er vijst og satt / huadan sem þad er teked. Enn þo skal þetta ecke so skilia / ad allur Heimurēñ mune giöra eda tala slijkt / helldur mestur fiölde Manna / og alla reidu eru marger og hafa vered / sem ecke hafa vilad trua þui / ad sijdaste Dagur mune koma / a medal huörra ad vered hafa sialfer Pauañer j Rom / Pius ✝ Paulus 3.

Vid soddan Spottorum varar S. Petur oss hier / ✝ seiger oss þad fyrer / ad þeir mune koma / og giefa sig fram / og lifa epter Villd og Vilia / so ad þad kome j lios sem Christr sagt hefur / Math. 24. So sem þad var a Døgum Noa / so mun þad skie j Tilkomu Mannsins Sonar / Þuiad lijka sem þeir voru fyrer Flodet / þeir ætu og druncku / þeir kuongudust og giptust / allt til þess Dags þa Noe gieck j Aurkena / ✝ þeir vissu ecke til fyrr eñ Flod ed kom / og tok þa alla burt / Eins mun

vera

vera j Tilkomu Mannsins Sonar. Item/ Mannsins Sonur mun koma a þre Stun du sem þa minst varer.

Item/ Luc. 21. Dagur þesse mun koma so sem ein Talsnara/ yfer alla þa sem bwa a Jórdune. Og enn af tur/ Luc. 17. So sem ein Eldding leiftrar af Himnum og vpp lyser allt þad vnder Himnenum er/ so mun Tilkoma Mannsins Sonar vera a þeim Deige. Pad er ad skilia/ So skyndelega + ovart mun hann koma/ þegar Heimenn varer sem allra sijdst/ + hñ kastar Guds Orde j Vind.

Þar fyrer er þetta Mark + Teikn til hins sijdasta Dags/ ad hann sie nalæger/ Þegar Menn lifa j Syndum og Stalþ ræde/ epter Vilia og Girnd sinne/ og þegar soddann Rædur heyrast Manna a medal/ Huar er nu Fyrerheit hans Tilkomu ? Hefur Veralldenn staded nu so langann Tijma/ Skal hun nu hid þyrsta verda vmbreyteleg ? Þenneñ aminer oss S. Petur/ ad vier hneygslū oss ecke/ helldur hófum þ fyrer vijst Merke/ nær slijkt skiedur þa mun Doms Dagur snarlega koma:

koma. Hæc Lutherus.

## Med huørium hætte þær Ver-ølldenn Enda ?

Hun mun brenna vpp j Ellde/ so sem S. Petur seiger j fyrra Pistle/ v 3. Cap. Himenenn sa sem nu er og Jørdenn verdur fyrer hans Ord foruórud/ so þau geymest til Elldsins/ a Deige Domsins/ og Fyrer dømninger Gudlausra Manna. Enn Dag ur Drottens hann mun koma eins v Þiofur a Nottu/ a huórium Himnarner munu forganga med storum Brestum / Enn Hófud skiepnurnar munu af Hita Bradna/ og Jørdenn og þau Verk sem þar eru jnne munu vpp brenna.

Hier vm skrifar Lutherus so.

A þeim Tijma fyrr mier/ þa Gud fordiarfade Verólldena med Vatsflodenu þa kom Vatned ad ofan og nedan/ og a allar sijdur/ og ecke var ad sia annad enn Vatn/ so ad Jørden var hulen j Vatnenu/og druknade allt þad a Jørdunne var. Enn nu hefur Gud Fyrerheited/ og þar vppa Regnbogann sett a Himnum/til eins Teikns og Merkis/ ad hann vill ei optar for-

fordiarfa Jórdena med Vatne/ helldur vill hañ lata hana forganga + fordiarf ast med Elldenum/ Og so sem Vatned vmkringde hana fyrr meir/ so mun nu ver da logande Elldur vm Jórdena allt vm kring.

Og j ødrum Stad stendur so.

Þegar seinaste Dagur kiemur so skyndelega/ þa verdur allt ad logande Ellde a Augabragde/ Og allt þ sem er a Himnum og a Jórduñe þad vppbreñur allt til Ausku/og aller Hluter verda fyrer Elldeñ vmbreytter/so sem þeir eitt siñ vrdu ford um fyrer Vatned.

## Ein Spurning wr Lutheri Postillu yfer Euangelium Dominica 2. *Aduentus*.

Þegar allar Skiepnur/ alla vegana j Heimenum loga nu j biórtu Bale/so þar er ecke nóckur Stadur obrunneñ eda an Ellds/ Huar blijfa þa vorar Saler ? Andsuar. Minn Vin/ Seigdu mier huar þær eru nu/ eda huar þær eru þegar vier sofum ? Þa vier vitum alls eckert af þui huad vidber + verdur/Meinar þu ad Gud kunne

kunne ecke ad vardueita Sælernar j sinne Hende/ so ad þær verde ecke varar vid/ þa Himen + Jörd brenā til Ausku ? Eda hyggur þu hañ mune verda ad hafa sierdeilis Stad eda Hws þar til/ so sem eiñ Hirder handa Saudum sijnum ? Pad er nog/ ad þu veist þær eru j Guds Hende/ eñ ecke j Vernd eda Vallde nöckrar Skiepnu. Og þo þu skilier ecke huörnen þ mune ganga til/ þa lát ecke villa þig. Þu kant nu enn ecke ad skilia huörnen þ geing ur til þegar þu sofnar/ þegar þu vaknar þad þu Daglega reyner/ Huörnen vilstu þa skilia huörnen hitt añad mune til ganga? Pad er nog þu seiger / Drotteñ/ j þijn ar Hend: fel eg Anda miñ/ Pa mū Himen og Jörd verda ny aptur/ lijka og eirnenn vorer Lijkamer lifande/ til ad fa og ödlast eilijfa Saluhialp. Ef ad vier vissum j huörn mæta Sælernar verda vardueitt ar j þeim Ellde/ þa væri Truen vor vte/ Enn nu vier vitum þar ecke af/ helldur vonum og væntum vppa Gud og hans Syrerheit/ þa blijfur Truen stödug/ og er ein riett Trū.

Huad

## Huad skal skie epter þad/ þegar Himen og Jørd eru vpp brunen?

Marger meina (huad og riett er) ad Gud mune skapa nyan Himenn og nyia Jørd/ og þeirra Meining er teken vr þui 65. Capitula Esaie/ þar Gud so seiger/ Sia/ eg vil skapa nyan Himen/ og nyia Jørd/ so ad Menn skulu ecke læta sier þad þyrra til Hugar koma/ og leggia þad ecke a Hiarta/ Helldur munu þeir glediast og fagna eilijflega/ yfer þui sem eg skapa/ S. Petur seiger og so/ 2. Pet. 3. Enn vier vonum epter nyum Himne og nyrre Jørdu/ epter hans Fyrerheite/ 2c. Og hinn Heilage Dauid seiger enn lioslegar hier fra/ huørnen þad Verølldenn mune Enda taka/ og sijdan verda endurnyud/ þar hann seiger/ Psal. 102. Himnarner munu vmbreytast sem annad Klæde/ þegar þu Drotten vmbreyter þeim. Og Petur Post ule nefner þann seinasta Dag Diem restitutionis omnium, Þad er soddan Dag/ a huørium aller Hluter skulu Endurnyast og j Lag aptur færast.

Þridie

# Þridie Partur
# Um Upprisu
# þeirra Framlidnu.

Þad er vÿst og satt/ ad þeir Framlidnu munu upprÿsa / þuiad Gud hefur þad so fyrerhugad og asett.

## Huar med verdur þad Beuÿsad ?

Med Heilagre Ritningu/ med Bokum hins gamla og nyia Testamentis/ og med þeirra Dæme/ um huória Heiløg Ritning vottar/ ad alla reidu sie af Dauda upp vakter.

## Seig fram nøckra Vitnisburde Spamanana og Postulana.

Job seiger/ 19. Cap. Eg veit ad minn Lausnare lifer/ og hier epter (a sÿn

 um

um Tijma) mun hann vppuckia mig wr Jørdunie/ og þad eg mun jklædast þessu mijnu Hørunde/ z eg mun sia Gud j þßu mijnu Hollde/ þañ hiñ sama mun eg sia þyrer mig/ og mijn Augu munu lijta hñ/ og ecke eirn annar.

Esa. 26. Þijner Framlidner/ Drottēñ/ munu lißa/ og ganga ꝑrañ med þra Lijkømum/ Vaked vpp/ Loß syngẹd/ þier sem ligged j Jørdunne lukter/ Þuiad þitt Nattßall er Nattßall hins græna Akursins/ og Landed mun vtuarpa þeim Framlidnu.

Daniel 12. Þeir mørgu (þad er aller) þeir sem vnder Jørdunne liggia og soßa/ munu vpp vakna/ Sumer til eilijfs Lijßs/ enn sumer til eilijꝑrar Smañar og Skañar.

Johañ. 5. Su Stund kiemur/ ad all er þeir sem eru j Grøꝑonum/ þeir munu heyra Rødd Guds Sonar/ og munu ganga ꝑrañ/ þeir Gott haꝑa giørt til Vpprisu

rísu Lijfsins/enn þeir Illt hafa giørt til Vpprisu Domsins/ Les hier vm fleira/ Johannes 11.

1. Corinth. 15. Nøndlar S. Páll þetta Efne næsta miøg Rijkuglega/ og Beuijsar Vpprisu Framlidinna med mør gum Epterdæmum og Lijkingum.

Ad þeir Daudu munu vpp rijsa/ þad beuijsa Epterdæme Enoch ꝛ Elie.

Sómuleidis hafa Prophetarner Postularner og einkannlega Christus sialfur marga vppuaked fra Dauda/ ꝛ lated þa verda lifande aptur/ huar med þeir nøgslega beuijsa/ ad þeir Daudu kunna ad verda vppuakter.

Og þo vier hefdum ecke þesse Epterdæme/ þa ættum vier ad lata oss nægia Dæme Lazari af Betania/ hñ hafde leiged fiora Daga j Grøfenne/ og lucktade jlla alla reidu/ þo vard hañ med eins Herrans Christi Orde vppuaktur.

Miøg merkelega og dyrdarlega beuijsar S. Páll Vpprisu Framlidenna/ 1. Corinth. 15. med Dæme sialfs Herrans Christi/ huør ad er fyrstur ordeñ af þeim

L ij. sem

ſem ſofa / og er vppriſeñ til eilijfs odauðlegs Lijfs / Hann hefur og með ſier vppvakt marga Lijkame Heilagra / ſem ſuafu / huörier að geingu wr Gröfonum / og komu j þa Heilögu Borg og birtuſt allmörgum.

## Huað er Vppriſan þeirra Dauðu?

Hun er eitt Guddomlegt Guds Verk huört hañ mun giöra og vtrietta a ſijdaſta Deige / þegar hañ vppuekur alla Meñ með Aund + Lijkama / til Lijfs + Odauðleiks / og giefur þeim Goodu og Riettlætu eilijfa Dyrð og Saluhialp / enn þm Vantruðdu og Guðlauſu giefur hann til Launa eilijfa Fyrerdæmning Pijſler og Plagur.

## Huønar ſkal Vppriſan ſkie.

A þeim yſta og ſeinaſta Deige / þegar Himen + Jörð hafa Enda / og eru forgeingenn / So ſem Job ſeiger 19: Cap. In nouiſſimo die de terra reſurrecturus ſum, Það er / A hinum ſijdaſta Deige mun

mun eg vpp aptur rijsa. Og Johañ. 6. stendur / Pad er Vilie Fødursins sem mig sent hefur / ad huør hann sier Sonenn og truer a hañ / hañ hafe eilijft Lijf og eg skal (seiger Christur) vppuekia hñ a sijdasta Deige.

# Huør vppuekur þa Daudu.

J Heilagre Ritningu verdur Vppuakning þeirra Framlidnu stundum til lógd + eignud Gude Fódur / stundū Guds Syne / Eñ fyrer Krapt og Almætte Guds fyrer Christum / j Hellógum Anda / mun þ skie / ad aller Meñ framlidner munu af Dauda vprijsa / Quia opera Trinitatis ad extra sunt jndiuisa. Þau ytre Guds Verk / sem er / Skópuneñ allra Hluta / þeirra Verndan og Vardueisla / so og Vpprisan Framlideña / heyrer til allre Heilagre Þreñingu / enn ei sierdeilis eiñe Personu.

Johañ. 5: So sem Fadereñ vppuekur Dauda / og giórer þa lifande / so lijfgar og Sonureñ þa sem hañ vill.

Og litlu ædur fyrre stendur so / Su Stund kiemur/a huörre ad aller þeir sem eru j Gröfönum/munu heyra Raust Guds Sonar/ og ganga fram.

Johan. 6. Pad er Vilie Födursins sem mig hefur sent/ ad eg tyne öngum af öllum þeim sem hann hefur giefed mier/ Helldur ad eg vppueke þa a hinum sÿdasta Deige.

Joh. 11. Eg er Vpprisan og Lÿfed.

Rom. 8. Sa sem Christum hefur vppuaked af Dauda/ hann mun og eirnen lifande giöra ydar daudlega Lÿkame.

## Vm Vpprisu Framlidenna talar so Lutherus/ j eirne Lÿkpredikun.

Petta þiker vera vndarlegt/ Ja / omögulegt/ad aller þeir sem daed hafa sÿdan sa fyrste Madur Adam var/ og allt til hins sÿdasta/skule a einu Augabragde verda vppuakter af Dauda/ Þessu vill Skynsemen ecke trua/ ad þetta mune so verda allt j bræde/og skie so skyndelega/ Þuiad hun sier/ huörsu ad sumer verda

Brender til Ausku/ sumer druckna j Vatne suma vpp eta Villudyr/ sumer verda hein Gder og af Hrösnum vppetner. Og omögulegt er vpp ad telia eda hyxa / med huör su mörgu mote og med huörium Tilburdum ad Menn deyia j öllum Heimenum/ + þo skulu þeir samt aller saman a einu Augabragde verda lifande/ og koma fyrer Christi Domstol : Sömuleidis og lijka hiner adrer/ sem þann Dag verda lifande fundner/ huört þeir eru vte eda jnne/ a Akre eda Eing/ Tune eda Torge/ j Sæng eda Sucfne/ eda hvad hellst huör hefur ad sysla / þeir munu a Augabragde verda vmskipteleger/ so ad þeir aller asamt med hinum ödrum sem af Dauda eru vpp vakter/ munu vpptekner verda j Skyeñ moto vid Drottenn.

## Huar þyrer hlioka þeir Framlidnu ad rijsa vpp aptur :

1 Gud hefur þad so til sett og skickad/ og hñ vill ad þad skule so vera/ þar fyrer hlytur þad so ad skie/ Og þetta er su einasta stærsta og hellsta Ordsök/ huar

þar fyrer fa ꝛ ödlaſt eilijf Laun. Nu af þui ad þeir hafa forachtad og fyrerlited Guds Bodord og Saluhialpareñar veg og hafa helldur viliad velkia ſier ꝛ vellta j Syndonum/ ꝛ þo þeir fae nu ſlijk Laun þar fyrer/ Huörium vilia þr̃ þad kieña? Huör hefur þa tælt og ſuiked? Huör hefur komed þeim j ſoddan Eymd og Ogiæfu/ nema þeirra eigen Oblydne ꝛ Jllſka? Þeir hafa ſier þetta vtualed/ Þui hliota þeir nu þeſſ ad niota. Þeir hefdu mætt rietta ſijnar Hendur til þeſſ lyſtelegaſta lifanda Vatz / Þar fyrer verda þeir nu ad rietta þær j logande Glædur Elldſins. Slijka Meñ auarpar Gud riettelega / Eſa. 50. Cap. þar hann ſeiger/ Siaed/ þier aller ſem Ellden kueiked/ ſa med Loganum er tilreiddur/ Ganged nu j Lioſenu ydars Ellds/og j Loganum ſem þier hafed ſialfer vpp kueikt. Eg kom til ydar og þar var eingen ſem mig ſia villde/ Eg kallade/og eingen villde anſa mier/ ꝛ c. Þar fyrer huör hañ vill ecke æckta hier j Heime omælanlega Gledeſ

lijf-

lijfrar Saluhialpar / huör hönum nu til
Boda stendur / og ecke hrædest nie ottast
grimmar Heluijtis Plagur og Pijsler / huör
tar hann enn nu ma flyia og fordast / sa
hlytur maklega ad pijnast og kueliast m3
eilijfum Plagum og Pijslum / vegna hiñs
heimsku / Drambseme ⁊ Vletnadar.

Huör hñ nu öllu þessu / epter so mar
gar Aminingar ⁊ Vidvaraner / slær j Vind
og vill ecke trua / Hañ mun þetta sialfur
maklega fa ad reyna / og trua þa hann
tekur a / Hañ mun þa sia / og a sialfum
sier reyna huört þad er loged / sem hann
hier j Hieme hefur ecke viliad trua. Og
med þui ad hañ hefur foraktad Christum
hans Postula / og adra Lærefedur og Pre
dikara / og allar adrar Straffaner og
Aminingar / Þa mun hann med öllum
Riette verda Diöflenum og hans Aarum
j Hendur feingen / og fylgia hönum ad ei⸗
lijfu / fyrst hann hefur ecke viliad Gude
epter fylgia.

# VI.

# Ad su minsta Kuøl og Piina

Fordæmdra j Heluijte/ sie myklu/ myklu þyngre og hrædelegre/ enn allar adrar Pijster og Pijnur þessa arar Veralldar.

Adur fyrre er vm talad/ ad Mismun ur mune verda a millje þeirra Fordæmdu j Heluijtis Ellde/ ad sumer mune þyngre Pijster lijda eñ sumer. Nu vppa þad ad eingen skule hyxa/ ad þeir sem nöckud liettare Pijster og Pijnur fa/ enn adrer/ mune þær sa þolad og vmlided audvelldlega/ Þa skal huör Madur vita/ Ad su hin minsta Kuøl og Pijna j Heluijte er myklu þyngre og obærelegre/ eñ þær allra stærstu og þyngstu þessa Heims Plagur og Pijster kunna nockurn tijma ad vera/ Þad vilium vier sanna med vissum Greinum sannrar Reynslu/ so ad nöckrer (ef ecke aller) hafe Orsök ad forda sier/ og hrædast þær Pijster og Kualer.

I.

Þad er öllum Mönnum kunnugt/ ad hier j þessum Heime er eingen so hryggur

aumur / vesall / ad hann fae ecke stundum nöckra Hugguin. Til Dæmis ad taka. Margur er miög fatækur/geingur hungradur / þyrstur / naken / hañ finnur þo og bitter opt anöckra froma Menn / þeir ed sia aumur a hönum og giefa hönum styckebrauds ad eta / og Dryck ad drecka / giefa hönum a Faturnar/og nöckud a sig / huar med hann verdur huggadur j sinne Fatæckt.

II.

Margur er siukur / so eingen kann ad læekna hañ / Þo er hönum stundum lietta ra / og hefur ecke jafnstrijda Verke alla tijma. Og þegar hañ er sem siukastur / þa vonar hñ þo ad sijnum Verkium mune liña / eda med stundlegum Dauda enda taka / Og hañ veit fullkomlega / ad hñs Siukdomur varer ecke eilijflega.

III.

Sumer verda Landflotta / eda vtlæger / af sijnu Födurlande / Enn þeir hafa þo þa Hugguin / ad þeir kuñe ad lifa jafn vel eda Betur annar stadar eñ j sijnu Fosturlande / so sem Dæme eru til / ad sumer

hafa

hafa j framanda Löndum ordeð Magtar Mlenn og Storherrar/ so sem var Daniel/ Joseph/ ꝛc.

## IIII.

Þeir er liggia j Fiötrum ꝛ Fangelse/ þeir hafa þa Von og Huggan/ ad þeir mune komast þadan/ annad huört heimuglega sleppa/ ella munu þr lauser verda fyrer Nad ꝛ Medalgongu añara Mañа.

## V.

Og þo ad þar kome/ ad nöckur eige ad Halshöggvast/ breñast/ pijnast ꝛ kueliast/ heingiast/ edur ad verda sundur lidadur. Ja/ eda þo hañætte ad lijda a sijnum Lijkama allskyns Plagur og Pijsler sem Meñ giæte vpp hugsad/ Þa hefur hiñ þo samt þa Von og Huggun/ ad fyrer Daudan mune Ender verda a þeim Kuölum ꝛ Pijslum.

Enn þeir sem j Heluijte eru/ þeir hafa öngua Huijld nie Roo/ auk helldꝛ Von eda Huggan/ Þuiad huör vill sia aumur a þeim/ þar þeir eru aller saman j störstu Sorg ꝛ Eymd ꝛ Huör kañ þar añan ad hugga/ þar þeir samt aller eru j sama ꝛe Sorg ꝛ Angist ꝛ

Hvórnen meiga þeirra Kvaler ꝛ Pijsl er nóckurneigen linast? Af þui ad sa Brēnande Elldur sloknar alldrei/ sa nagande Samuisku Ormur deyr alldrei/ Og þeir grimmu Dióflar þreytast alldrei / þa ad Pijna og kuelia?

Hvórnen kūnu nóckur ad hafa Von þar til/ ad su Pijna mune Enda hafa/ þar Bólvan/og aluarlegur Vrskurdur Domarans alldre verdur myktur/ linadur nie aptur kalladur/ Helldur ad eilijfu stadfestur yfer þeim.

Yfer allt þetta/ þa er auglióst/ ad Gud leggur a þa Godu j þessum Heime þar fyrer Kross og Motgang/ad hā vill þar med reyna þa og profa/Og fyrer þr ra Þolenmæde/vnder Krossenum/vpphefia þa til ædre ꝛ eilijfre Dyrdar. Hañ lætur og Kross og Motgang optsiñis koma yfer þa Ogudlegu/so ad þeir vt af Hrædslu stundlegra Kuala og Motlætis/ verde skielfder/ og giore jdran. Enn j ódrum Heime verda Pijsler og Kvaler lagdar a þa Fordæmdu(hvórium Synderner voru alldrei eitt siñ leidar hier j Heime)til þss/ ad lijka so sem þeir voru hier alldrei an

Syndar/so skule þeir og þar aptur a more/j Helvijte/alldrei eitt Augabragd vera an Kuala ⁊ Pijsla.

Hier j þessum Heime/vnder stundleg um Pijslum og Motgange/ ma merkia Guds goda Meining og Hiartagiæsku/ Enn þar vill ecke añad a ferdum vera enn Hyckia og Guds Reide. Huór er nu þar fyrer sa/ ad ecke vill helldur verda straffadur hier j Heime/ af Gude/ huór þ allt giörer af godre Meiningu/ helldur enn ad verda fordæmdur og eilijflega pijndur vnder Guds Riettlætis Reide. Þar er stor Greinar munur/ þegar einn Herra slær Son siñ/eda Ovin. Sonen slær hañ þar fyrer/ ad hann skule læra af jllu Athæfe og verda fromur/ Enn Ovinen þar fyrer ad hañ fordiarfe og fyrerfare hönum med öllu. Huór er nu þar fyrer sa/ ad hñ vill ecke myklu helldur vera tyftadur ⁊ agadur af sijnum Födur helldur eñ sijnum Fiandmañe/huór þad giörer ecke nema af Grimd og Reide?

Þar fyrer er hin minsta Pijna j Helvijte/myklu stærre og þyngre/ enn su allra stærsta Kuól ⁊ Pijsl/hier j Heime/ Þad

ad

ad hier j Heime vitum vier / ad allar vor
ar Pijsler og Hörmungar / huörsu hrygg-
legar og þungar sem þar eru / þa legg ur
Gud þær a oss af sine Födurlegre Aast ✝
Millde / oss til gagns ✝ Betrunar / En hin-
er þeir Fordæmdu verda pijnder ✝ kvalld-
er so sem af þeirra Fiandmane ✝ Ovin /
huör ed þeim allrei ad eilijfu mun syna
Nad nie Myskun.

Lijka so sem sa allra farsælaste Ma
dur hier a Jördune / j allre sinne Dyrd og
Velgeingne / kan ecke ad jafnest vid þan
minsta Man j Himerijke. So ✝ hier þu-
ert a mote / Sa sem verdur ad lijda þa
minstu Kuöl Helvijtis / sa kan ecke ad jaf-
nast vid nöckurn Man / huörsu aumur ve-
sall / sær og siukur han er hier j Heime /
Þar fyrer er eingen Eymd yfer Helvijtis
Eymd / eingen Olucka slijk sem Helvijtis
Olucka / eingē Kuöl ✝ Pijna yfer Helvijt-
is Pijnu / ✝ Pijsl / j huörre þeir Aumu For
dæmdu eilijfleza sitkna og brena / af huör
ium Kuölum þad kiemur / ad þeir bölva
Gude og lasta hans Nafn / So sem S.
Johanes j hans opinberan vottar / þar
han seiger / Þeir bitu sijnar Tungur py

rer Kuol og Angist/ og løstudu Gud a Himnum/Vegna þeirra Pijsla.

Þa munu Børnen klaga yfer Forelldrunum/þad þeir hafa ecke hallded þeim til Guds Otta/ Forelldrarner þar aptur a mote/klaga/ad þeir hafe elskad Børnen ofmiög/ og þar fyrer hafe þeir ecke gietad agad þau nie tyftad/ Jtem/ad þr Barnaña vegna hafe med Riettu + Oriettu Gotze og Peningum safnad/ so þau mætttu rijk verda.

Þa mun huør Brodereñ reidast ødrum huør Vinur ødrum / Fyrer þad ad einn hefur aññan styrkt til þess jlla og Orietta/ + ecke hañ straffad + avijtad.

Dotturen mun avijta Modurena/ad hun hafe med vondu Epterdæme giefed sier Tilefne til Saurlijfes/+ ecke straffad sig þar fyrer.

Moduren mũ þa aptur a mote skulld giefa Dotturene/ad hun hafe ecke gietad agad hana og straffad/vegna Modurlegrar Elsku/ og þui bliote þær badar ad lijda eilijfa Pijsl og Pijnu.

Snøgt ad seigia/ Þar mun huør añ-

an alltÿd lasta/lyta/skaina/ Huör ödrum Brÿxla/og skulld giefa. Og so sem adur var sagt/ þa mun þad mest auka Pÿsler þeirra og Kualer/ þa þeir sia Naunga ✝ Astuine sÿna kueliast eins og þeir/ huad helst þeir þar merkia/sia/heyra og huxa þa eykst þar af þeirra Kuöl ✝ Pÿna.

Huörsu munu þeir þa oska sier/ Ad þeir hefde lided allan Motgang/ alla Pÿsl ✝ Pÿnu/ alla Eymd ✝ Olucku þessa Heims/helldur enn ad koma þar ? Hier i Heime kan ecke ad vera og ecke ad huxast eda nefnast nockur Kuöl Pÿsl eda pÿna so hryggelig hrædel:g/ ad þeir villdu ecke helldur hafa þad lided/helldur en ad vera komner j þan Kualastad.

Suma/ Þeir munu kueliast pÿnast med Ellde og Brenestteine fyrer Heilög um Einglum/og fyrer Lambenu/ ✝ Rey kur þeirra Kuala mun vpp stÿga/ fra Eilÿfd til Eilÿfdar/ og alldrei munu þeir Dag eda Nott Huÿld hafa/ Apocal. 14. Cap:

Huad vilium vier goder Brædur/gió

ra hier til? Lœtum oss leggia af Verken Myrkraña og Holldsins Girnder og Vellystingar/so ad vier hreppum ecke þar j stad en/eilijffa Eymd og Pijnu

Lijdum þolennodlega og af Hiarta vora Fatæft og Neyd/huør hellst hun er so ad vier ecke hreppum þa eilijfu Fatæft/ huør ad so er stor og hrædeleg/ad ecke er møgulegt ad nøckur þae eirn Vatzdropa.

Lijdum nu hier Haad og Spott/so ad vier ecke verdum af Dioflenum spottader z hædder eilijflega/Høpum vort Holld j Taume/z þuingum þad/ Lifum hrein ferduglega/ so ad vier þurfum ecke ad lijda þann Heluijska Elld/ z eilijf Myrkur og eilijflegar Kualer og Pijsler/ og þar med hafa alldrei Von/ad þær mune nøckurn tijma endast/ad eilijfu.

# VII

Um

# Vm Glede og Farsælld þeirra Vtualdu j eilijfu Lijfe.

Enn þeir Gudhræddu/ þeir munu fa ad heyra af Domaranum Jesu Christo/ þesse gledelegu og fagnadar rijku Ord/ Matth. 25. Komed hingad/ þier Blessader mijns Fødurs/ og erfed þad Rijke/ sem ydur var fyrerbued/ fra Upphafe Veralldar.

O ho/ Huad gledelegt mun vera ad heyra þesse Orden/ Þau eru sætare enn Hunang/ lystelegre enn nockur Matur/ dyr mætare enn Gull eda Gimsteinar/ betre enn allar Veralldarennar Rijkdomur. Þad eru ORD eilijfrar Glede og Vnadsemdar/ Ord allrar Himneskrar Dyrdar og Farsælldar/ Þau Ord ganga yfer allt þ Madur kann ad kiosa sier og oska/ Ord þau eru liuflegre og þægelegre/ enn allt þ sem i Heimenum er eda vera kann. Þui huad kann ad huxast liuflegra gledelegra enn þsse sætu hiartanlegu ORD/ ad heyra ecke af Manne tölud / helldur af Drotte-

 ne

ne allra Drottna/ Komed hingad þier Blessader/ z cf. Sannlega munu þeir rickt Blessader og Sæler sem þetta hafa ødlast/ ad þeir verda kallader med þessum allra sætustu og liufleguste Ordum. Og vppa þau Ord munu þeir ganga m̃ Herranum Christo/ med Heilögum Englum og Vtuöldum Guds jnn j eilijffa Farsælld og Glede oendanlegrar Sælu hialpar.

## VIII.
## Um Liikame þeirra Utuøldu.

Fyrst munu Guds Vtualder lioma z skijna j Dyrdlegre Fegurd/ j Riettlætis Solunne Jesu Christo/lijka so sem Stiörnur Himens/ med öllum Heilögum Einglum.

Þeirra Lider og Limer munu þa ödlast Dyrdarsamlegan Lioma og fegurdar Biartleik. Og Guds eilyfs Maiestatis Andlit mun þa vpplysa/so sem nu giefur Solen sijna Birte Tunglenu og ödrum planetū

Planetum og Stiörnum. Hviad / Ef ſa Heilage Guds Madur Moyſes (Þa hann rædde vid Gud) fieck ſo ſkijnande Andlit/ af Samtale vid Gud / ad Jſraels Syner gatu ecke lited j hans Aſiann / þa han̄ vár enn þa hier a Jördun̄e / ⁊ j þeſſum daud lega Lijkama / Huörſu fegre og meir ſkijn ande munu verda þeirra Andlit og Lijka mer / ſem alldrei ſkilia vid Gud / helldur eru hia hönum j Himerijke eilijflega / og eru ordner Borgarar þeirrar Himneſku Jeruſalem / Samſielagar og Viner allra Heilagra / og Medarfar Chriſti ? Vm þetta höfum vier lioſan Vitnisburd j Heilagre Ritningu / j Bok Spekeñar / 3. Cap. Og a þeim tijma þegar Gud verd ur lijtande þar til / þa munu þeir ſkiært ſkijna / og ganga fram̄ ſem Ellds loge yf er Graſtra / Pad er / yfer þa Heidnu og Ogudlegu.

Daniel 12. Þa munu Lærefedurner ſkijna / ſo ſem Himna Geiſlar / og þeir ſin̄ mörgum hafa vijſad til Riettlætis ſo ſem Stiörnur æ ⁊ eilijflega.

So vottar og einnen Chriſtur ſialfur Matth. 13. Þa munu Riettlæter ſkijna

so sem Solen j Rijke beirra Fódurs.

Enn Riettlæter munu bo myklu skiæ rara lioma/ eñ nu skijn Solen/ a hnótta vier med vorum Augum ecke þolum ed horsa/ Hvad ed sama Herran Christur hefur audsynt a sialfs syns Blessada Lijkama/ þa ed hans Andlit vard skiær ara enn Solen/ og Klæden huijtare enn Snior. Su Birta og sa Lieme hefur ecke vered so sem Solarennar Birta/ hvór ed Augun reyker og nóckurn part blindar/ Helldur hefur su Birta Andlitsins Christi so gladt Postulana/ ad Petur villde giara reisa þar Bygd/ og þar vera langt fra ódrum Mónnum.

Og ad Riettlæter skule ódlast þessa skijnande Birte/ þad vottar Christur sialfur Johañ. 12. Eg hef/ seiger hann/ giefed þm̃ þa Dyrd sem þu gafst mier.

Nu bo so sie/ad eirn Ójafnaldra Lio me og skijne skiærra eñ añar/ þa mun þo eingen añañ þar fyrer fyrerlijta/ Eingen añañ ósunda/ Þviad þr eru aller fullkomleger/ Psalm. 10. Eg mun saddur verda þa der/ Eg læt mier fullnægia/ þegar eg vpp

vppuakna epter þiñe Mynd. Huad huór
nen vill eirn annan þar fyrerlyta eda ðfs
unda ? Þar aller hafa fullkomlegan Al
ærleika huór til añars. Þar fyrer/ þeir
sem þar eru j nöckru minna Gillde/ ✝ ecke
hafa so mykla Dyrd ✝ Soma so sem ad
rer/ þeir munu af Hiarta vña hinum öds
rum þeirrar Dyrdar ✝ Sæmdar.

Vm þessa Dyrd og þeñan Biartleik
talar Heilög Ritning so/ 2. Corinth. 3.
Nu skodum vier aller Biartleik Drottins
so sem j Speigle/ med ohuldre Asian/ Og
vier verdum i þeirre samre Mynd vpplyst
er / fra einne Birte til añarrar / so sem af
Anda Drottens.

Phipp. 3. Vor Vmgeinge (vort Hei
mele) er a Himnum / huadan vier væntum
Lausnarans Jesu Christi / sa vora fasein
ga Lýkame mun forklara / ✝ lata pa lij
ka verda sinum forklarödum Lýkama /
epter þeirre Verkan/ huar med hñ kañ sier
alla Hlute vndergiefna / ad giöra.

1. Johañ: 3. Vier erum nu Guds
Börn / Eñ pad er ecke fram komed / huad
vier munum verda / Eñ vier vitum / þeg
ar hañ birtest / ad vier munum verda hös

num lÿker/ Og huör huilÿka Von hefur til hans/ sa hreinsar sig/ lÿka so sem hañ er hreinn:

Ad auk þessa Biartleika/ þa munu Ödualder verda a þeirra Lÿkömum so flioter og liettfærer/ ad ecke mun nöckur Hlutur vera/ sa sem þeim kañ Hindran eda Hamlan ad giöra/ j nöckru/ Þeir þda a Augabragde huar hellst þr vilia vera/ a Himnum og a Jördunne/ eins og nu er Hugur Mans/ hañ er nu (ef vill) a Auga bragde j Austre og Vestre/ Nordre ꝛ Sud re/ og j ödrum Löndum ꝛ ættum Verall dar huar hũ vill.

Sömuleidis og þar ad auk/ þa mun ei vera nöckur Hlutur sem þeim misbiode ei nöckud þad þeir þurfe ad lÿda/ so sem vier lesum j openberanar Bok Johñ. 7. Þa mun ecke hungra eda þÿsta þramar meir/ Ei mun Solen þalla yþer þa/ nie nockur annar Hite/ Þuiad Lambed mitt a Stolnum mun þodra þa/ og leida til lifande Vatzbruña/ og Gud mun aþþur ka oll Tær aþ þeirra Augum.

Og

Og 21. Cap. Gud mun aþþurka oll Tær aþ þeirra Augum/ Dauden mun ecke vera þramar meir/ ei Harmur ne Grætur/og ei Kuol nie Pijna/ Þui þad þyrsta er vmlided. Og sa sem a Stolnum sat sagde/ Sia/Eg giore allt saman nytt.

Og vppa þad eingen hugse ad þetta sie dictad/þa stendur þar hia. Og hn̄ sagde til mijn/ Skriþa þu/ þuiad þesse Ord eru sonn z obrigdanleg.

Esa. 49. Þa mun hūrke hungra nie þysta / og eingen Solarhite mun brenna þa/ Þuiad þeirra Myskunare mun þeim Leid seizia/ og leida þa til Vatz brunna.

Þeirra Lijkamer munu ecke vera Jardnesker/forgeingeleger/ þunger a sier so sem nu/ helldur klarleza Andleger/ med huórtum þeir munu a Augabragde vera huar hellst þeir vilia/ so eingen Veggur eingen Mwr/ei nóckud annad/mun kun̄a ad talma eda hamla þeim/ad þeir sie ecke þar þeir vilia vera/ Eins og Fuglarner i Lopt-

i Loptenu/ Fiskarner i Sionum fara um allt. Þar med verda þr oskaddader/oskier ter i allan mata/lijka eins so sem Solar geislen/hañ geingur i giegnum eitt skiært Glas/ og giefur af sier Birtu og Hita/ + skadar Glered þo ei nie skierd ad nóckru. Med soddan hætte er vor Lausnare kom en wr jnnsigladre og byrgdre Gröfeñe/ + lijka i giegnum læstar Dyr til siña Lærefueina. Og uppá þad þeir þyrste ecke ad ætla/ þad hann være Ande eda Forynia nóckur/þa mællte hañ/ Þreifed a og siaed/ Þulad Ande hefur ecke Bein nie Hollð so sem þier siaed mig hafa. Soddan Proprietates, Natturu/ Art og Tegund munu eirnen vorer Lijkamer fa þa og ódlast:

# IX.

## Um þa Lystelegu Herlegu og Fogru Bwstade og Heimele Guds Utualdra.

Þa mun taka til Utualdra Eilijf Himnesk Glede/þeirra Dyrd og Unadsemd/ i þm Dyrdarlegu Bwstödū + Tialdbwdū

Swdum og Heimelum/hia öllum Heilögum Einglum og Mönnum / j Auglite og Alite Guds/þar þeir Leyster eru fra öllu illu/og hafa nægd alls Gods/allt þetta mun vera so merkelegt/ astwdlegt/ farsællegt og dyrdlegt/ ad hier j Heime kañ ecke nöckurs Mans Tunga þar fra ad seigia. Þuiad so sem þesse Bustadur allra Guds Vtualdra er myklu hærre enn aller Hluter sem j Vörulldune eru/So mun hiñ og vera myklu fegre/ tijgnarlegre /vijdare/dyrdarlegre/eñ allt añad/Þuiad hañ er fyrer ofan alla Himna / og kallast Land Lifande Maña. Þesse Heimur j huörium vier nu lifum/er ecke annad eñ Land og Heimele Daudans/ med þui ad allr þ hier er jnne/ þad verdur ad deyia/ z hafa eirn Enda/ Enn þar annars Heims vara aller Hluter ad eilijfu. Þar fyrer flytum oss þangad/þar er þ rietta sanna eilijfa Födurland z Heimele vort.

Þar til bliotum vier ad med kienna/ Og vier siaum þad z merkium/ad eñ þo j þessum Heime sie nöckurstadar/gledelegt/ tijgnarlegt / agiætt / lystelegt og þægelegt/ Þa mun þar vera myklu lystelegra

tijgnare

tijgnarlegra og Gledelegra/ þar sem Gud er allt j öllum. Hier j þessare Verölldu er allvijda herleger Akrar og Alldengardar/ Grænar Grunder/ + fagrer Skogar/ Silfurberg og Gullberg/ Lysteleg Fiskevötn og Læker/ agiætar fagrar Borger/ j hvörium ad eru forprydelegar Kirkiur/ Torg og Turnar/ fögur Hws bygd af Marmarasteinum / med allskyns Pryde + Hagleik vtsnickud/og skoren/ Og af þssum Stödum verdur mijked hallded/ og þar vita Menn margt af ad seigia/ og þeim ad hæla. Og ef ad Menn finna hier vnder þui liettasta og minsta Elemente/ soddan Fegurd og forkostulega Pryde/ Hvad mun þa vera j ödrum Heime/ huer ad er vpp yfer öllum Elementis + höfud skiepnum/ þar sa hæste eilijfe + allra þeß asie Forsmidur og Bygginga meistare hefur Bæstad tilreitt og bwed/ + Herberge/ enda sier og sijnum Einglum og öllum Guds Vtuöldum.

Ad auk þessa þa siaum vier/ hvörsu ad Himensins Lios/ Solen/ Tungled/ Stiörnurnar/ hafa myklu meira Biartleik en nöckud annad þad sem a Jördunne

er.

er. Skyllde nu þad sem þa er enn myklu
værra/ eñ Sol og Tungl/ sem er sa eilijf-
fe Himneske Bwstadur Vtualdra/ ecke ve-
ra þa myklu tijgnarlegre/ fegre/ lysteleg-
re og dyrdarlegre?

Framar meir siaum vier eirnen þad/
Ad fyrsta Herberge Mañsins er Modur-
ennar Lijf/ Þad añad Herberge er Heim
ur þesse/ Þad þridia/ fyrer þa sem Gud-
rækelega hafa lifad/ þad er þad eilijfa
Rijke j Himnenum. So sem nu þad ann
ad Herberge er betra eñ þ fyrsta/ so vd-
ur þad þridia myklu betra eñ añad/ Ja/
osegianlegra ædra/ Dyrdarlegra og pryde
legra. J fyrsta Herberge erum vier nær
niu Manude/ J ödru allra leingst hun-
drad Aar/ optast skiemur/ Eñ þad þrid-
ia er eilijft og hefur önguan Enda. So
sem nu þad þridia Herberge varer myklu
leingur enn þad fyrsta og añad/ So er þ
og myklu Dyrdarlegra eñ hin bæde/ Þar-
fyrer seiger Baruch rett/ 3. Capitula.
O Jsrael/ Huørsu Dyrdarlegt er Hws-
ed Drottens/ huad vijdur og stor er hañs
Bwstadur? Hañ hefur önguan Enda/ +
er

arlega er sagt fra hier/ þu Stad: Guds. Og 93. Psalm. Heilagleikureñ er Prydeñ þijns Hwss eilijfflega.

Ad sijdustu/ þa er þad vitanlegt fyrer huórium og eiñum / ad allt huad hier er a Jórduñe nidre / þad stiornast ✝ hefur Næring af þui sem vpp yfer oss er. Af Soluñe hófum vier Dagen/ Af Tunglе og Stiórnum Nottena/ Epter þui teliũ vier Aar og Misssere/ Manude og Daga/ Af Lopteнu fær Jórden siñ Auógst og Groda/ þar ofan ad lifa óll Dyr a Jórduñe. Þar fyrer meigum vier skynia þad/ ad sa Stadur huadan allt þetta kiemur/ hañ mune vera myklu Tijgnarlegre ✝ Dyrdarlegre/ eñ hiñ nedre/ sem alls þessa vid þarf/ og þetta fær af himnum.

Suiña er þad/ Hier eru þeir Daudlegu/ þar þeir Odaudlegu/ Hier eru þeir Syndugu/ þar þeir Riettlætu/ Hier eru Meñ alleina/ þar eirnen lijka Guds Einglar. Þar fyrer er sa Himneske Bwstadur eñ/ eda Heimeled myklu prydelegra dyrdarlegra/ so ad vid þad ma ecke neinu iafna me samlijkia/ ei Gulle/ Silfre/ Gimsteinum

num/eda nöckrum Dyrgripum/ eda nöck-
ru. hui sem fyrer Heimenum þiker For-
kostulegt.

# X.

# Um þa Lystugu Glederiiku Samuist Guds Otualdra/ og Heilagra Eingla.

Þad allra mesta Fögnud og þa stærstu
Glede munu Otualder hafa af Samuist
og Veru og Samfielage allra Heilagra/
Huiad þar kiemur til samans allur otel-
kianlegur fiölde Eingla + Otualdra. Þar
eru vorer fyrstu Forelldrar Adam + Ewa
Þar eru þeir Heilögu Forfedur/ Patriar-
char/ Prophetar/ Kiennefedur/ Höfdings-
iar/ Domarar/ Kongar. Og aller adrer
sem Guds Ord elskad hafa/ eru þar kom-
ner/ Ecke fyrer Verk Lögmalsins/ helld-
ur vt af Nædenne/ huör ed komen er ept-
er Lögmaled/ Johann. 1. Þar eru aller
Heilager Postular/ Heilager Biskupar/
Prestar/ Salusorgarar og Lærefedur/ al
ler Heilager Einsetumenn/ Pijslaruottar/

Jatarar / Meyar og Gudhræddar Konur og Eckiur. Þar eru aller Fromer Reysarar / Kongar / Herrar og Hófdingiar / Aller Þionar Christi / ⁊ aller Riettruader / þeir ed j Truñe / j Kiærleikanum og Voñenne hafa stadfaster staded / og aller adrer um huória vier hevrum kient og predikad / og j Heilagre Ritningu lesed verdur. Aller þesser munu af þeirre Samuist og Veru fa ovmrædelega Hiartans Glede / ⁊ med eirnre Róddu / einum Vilia / ⁊ einsómum Fögnude vera glader ⁊ med godu Giede / eilýflega.

Enn huad vil eg tala / um þañ Dyrdarlega Fiólda Guds Heilagra Eingla? Pad þiker mióg mýked / og eitt stor Dasemd / huór þañ hefur feinged einu siñe ad sia Guds Eingel / j Mannlegre Myndᵉ / Huad myklu dasamlegra mun þad þikia / þa vier faum ad sia þa j þeirra Mynd ⁊ eigen Skópun / ecke eiñ tuó eda þria / helldur margar þusunder þusunda (huórra Tölu eingen veit nema Gud eirn) þa vier munum sia þa j þeirra Nlismun / Ordu og Stickan / ⁊ huórn eirn j sinne Vegsemd ⁊ Dyrd / J einum stad Einglanna / j ödrum

Höf

Hôfudeingla / Hier Cherubim / þar Seraphim / Hier Thronana / þar Magtarvellden / hier Kraptana / þar Hôfdingiastiett er / Gabriel / Raphael / Michael / og so sem þeir aller verda nefnder / med Nafne eigenlegu.

O h / huad lystelegt og gledelegt mun þad vera / ad sia og skoda þær allra fegurstu og agiætustu Guds Skiepnur / j þeirra Biartleik / og ad lifa til samans j riett um Brodurlegum Kiærleika hia Vtuöldum Guds eilijflega / ꝛ med þm DROTten allra Drottna ad lofa og dyrka eilijflega / med Psalmum og Lofsönguum / ꝛ allskyns lystelegum Hliodfærum / huőr yferganga munu öll Veralldleg Hliodfære / allra Mañа Radder / ꝛ allra Fuglasöng. Þui þa mun heyrast / og þad mun verda eirn Himneskur allra Engla ꝛ Vtualdra Söngur / ꝛ eitt eilijft Alleluia Alleluia.

# XI.
## Vm Nalægd Guds Sonar hia Vtuoldum.

Þa munu aller Otualder vera ✝ Bliſa hia Syne Guds elliflega/ huórn Gud Drottenn ſett hefur og ſkickad/ ad hŭ ſkyll de vera Hófud/ hæſte Kiennemadur/ og Kongur Chriſtelegrar Kirkiu og Guds Safnadar. Fyrer hā hófum vier frialſā Gang til Fódurſins/ Galat. 3. Þuiad hañ er alleina ſem er medalgóngu Madur mille Guds og Mañaña. Hann er ſa eilijfe Guds Sonur/ hans eigen Mynd/ Kraptur/ Speke og Liome/ og ſitur til hægre Handar hŭs Dyrdaruelldis/ Fyrer hónum Beyia ſig óll Knie/ bæde a Himnum/ Jórdu nidre ✝ Heluijte/ Allt huad Andardratt hefur þad lofar hŭ/ Pſal. 150. Hañ iata allar Tungur/ Þuiad hañ er þ ORD/ fyrer huórt aller Hluter eru ſkapader/ ſem eru a Himnū ✝ a Jórduñe/ ſyneleger og oſyneleger/ Bæde Thronarner/ Magtaruelldin/ Kraptarner ✝ Hófdingſkapuren. Aller Hluter eru af hónum ſkapader/ og hañ er yfer óllum Hlutum/ og aller Hluter ſtandaſt fyrer hann/ Col. 1. Hañ er vor Frelſare/ Lauſnare/ vor Fógnudur/ Glede ✝ Sæluhialp.

J hia hónum munu aller Helllager vera

vera og blijfa / i Himneskre Arfleifd / i ofeiganlegu Liose / i eilijfre Dyrd og Glede / Þuiad so seiger hañ sialfur / Johañ. 12. Huar hellst eg er / þar skal miñ Þien are vera hia mier. Og 17. Cap. Fader eg vil / ad huar eg er / þa sie þeir hia mier huória þu gafst mier / so þeir siee mijna Dyrd / huória þu hefur mier giefed / þui þu elskader mig ádur enn Veróllden var grunduóllud.

O hy / Huad ovmrædeleg Glede mun þad vera / þegar Menn og Einglar bwa so til samans / og oaflætanlega sia og skoda Andlit vors Herra Jesu Christi / ecke vppkastad / mælad / vrskored / Ecke j annarlegre Mynd / Helldur so sem hañ er / j eigenlegre Mynd / j siñe eilijfre Dyrd og sijnum Biartleik / og lofa og dyrka hann eilijflega.

Þar er eingen Vode / eingen Kuijde / ecke Eymd ne Erfide / Þar er ecke Skortur a nóckru / Þar leidest alldrei neitt. Þui þar er ecke Sott nie Siukdomur / Þar er önguan Ovin ad ottast / þar er ecke Hatur nie ófund / þar er huórke Synder nie Glæper (þui þar verdum vier aller hrein

 er

er so sem Gud Einglar) þar er ecke Kul de nie Hite/ ei Stormur nie Ovedur/ Þar er ecke nöckud Oheilnæmt/ nie Jllt/ ⁊ ct. Þar mun ecke nöckur klaga sig vm nöckra Eymd eda Olucku eda Motgang/ ⁊ ecke oska sier nöckurs annars betra/ eda lystelegra/ eñ þar er.

Enn þar Johañes seiger/ 1. Cap. Eingen hefur Gud neckurn tijma sied. Og S. Paall sa Vtualde Guds seiger/ 1. Timoth. 6. Hvorn eingen Manna hefur sied/ og ecke kann ad sia/ ⁊ ct. Þad er taled vm vor Lijkamleg Augu/ hvör vier nu höfum j þessare Syndum spilltre og fordiarfadre Natturu/ eñ ecke vm Augu/ þau sem vier muunum fa ⁊ öd last j ödru Lijfe/ Þuiad þar er stor Mismunur a mille vorra Augna nu/ og aññars Heims/ þa vor Augu verda vpplyst og forklarud.

Þennan Mismun syner oss S. Paall medliosum Ordum/ 1. Corinth. 13. Þar hañ seiger/ Nu siaum vier so sem fyrer Speigel/ j Radgatu/ eñ þa Andlite

like til Andlitis/ Pad eg nu þecke Gud þad er Halþuerk/ enn þa mun eg þeckia hann/ so sem eg verd þecktur.

Og Johañes seiger so j fyrra Pistle/ 3. Cap. Mijner Elskanleger/ Vier erum nu Guds Børn/enn þad er ecke framkomed/ hvad vier verda munum/ Enn vier vitum / þegar hñ birrest þa munum vier verda hõnum lijker/ þuiad vier munum sia hañ so sem hñ er.

Og Christur seiger so/ Matth. 5. Sæler eru Hreinhiartader/ þuiad þr munu sia Gud:

Johañ. 14. Þier skulud sia mig/ þui ad eg life/og þier skulud og lifa/ A þim sama Deige munu þier vidurkieña/ad eg er j Födurnum/ og þier j mier/ og eg j ydur.

O ho / Huad ovmrædeleg Aast ✝ Elska Guds er þad/ sem hañ hefur til vor/ ad hañ vill bwa j Mañenum/ vill lata hañ þeckia ✝ skoda sig/✝ endelega vm sijder veita hõnum eina Himneska Hzletta Saluhialp.

Þar fyrer seiger hañ framar meir/
 Huör

Huór sem elskar mig/hañ mun miñ Fad er elska/og eg mun elska hañ/ꝛ openbera mig fyrer hónum.

Nu hier j Heime hliotum vier ad TRVA/Enn añars Heims munum vier klarlega sia bad vier hófum truad/so siñ Einglarner lijta aullt Andlite þeirra Fódurs a Himnum/Og hann mun giefa oss Huggaran þann Hielagan Anda/ sa med oss sie/ad eilijfu/Ande Sañleikſins/ huórn Heimuren huórke vill sia nie þeckia nie medtaka/Enn vier þeckium hañ/og hann mun hia oss blijfa/ og j oss vera eilijflega.

Þu hiñ Ogudlege/Gack nu fram/þu sem ecke villt afleggia þessa Heims Synder/Athæfe og Lijf/leitar epter sundlegre Æru/Metnade og Metordum/Eignum og Rijkdome/Og þo þu yrder Keisare og Kongur/þa kiemstu alldrei þijna Lijfdaga so hatt/ad þu verder jafn vid hañ sem Christum elskar. Þuiad sa hiñ same hann fær og ódlast bad sem þesse ogudlega Veróllð alldrei fær/ Sa same sier og veit bad þu huórke sier nie veist/ Þu Sialfur/þijn Dyrd/þiñ Nemadur/

Rÿkelæte/ hÿn Vólld og Virdinger fa fullſnart Enda/eñ hans Fógnudur ✝ Hei dur varer eilÿflega.

Hÿn Lyſt/ ſem ad er Heimuren med ſiñe allre Magt/Soma/ Metnade ✝ óllu Athæfe mun forganga ✝ eydaſt/ Eñ hñs Lyſt/ſem ad er Gud Drotten alleina/mun i hónum og med hónum eilÿflega Blÿfa og vara. Vm alla Eilÿfd hefur hañ all drei Skort nie Breſt a nó Fru Godu/Vui ad hañ hefur hañ/huór alla Hlute hefur ſier i Hende/✝ allt megnar/✝ allt gott gie fur ✝ veiter/ ✝ ct.

Þar fyrer eru þeir ecke ſæler/ſiñ hier i Heime hafa forgeingeleg Andæfe/ſtora Dyrd og Vegſemd/ Helldur þeir ſem eig⸗ ande eru ordner ad þui Himneſka Rÿkeru Þeir ſómu munu Bigafader verda med ei lÿfum Odaudleika/fullkomeñe Viſku og Skilninge/ med oforgeingelegum Hiart⸗ ans Fógnude/✝ eilÿfre Sæluhialp.

Þa munu þeir ſia Lioſed i Lioſenu/ þad eilÿfa Ord Guds(LOGON)i Gude og þañ Heilaga Anda/ huór ed af Fódur og Syne er frañ farande

Þa munu þeir hid fyrſta fa ad ſkilia

huørnen ad Faderen / Sonuren ꝛ Heilagt Ande er einasta eirn Gud / enn þo sundur greindur j þriar Persónur / og er þo lÿka vel ein eilÿf oadskilianleg SVBSTANTIA og Vera.

Aull Heimugleghеit / aller Leyndardomar munu þa auglioser verda / og alle openbert þad nu er hulid / Huad Menn trua nu / þ munu þeir þa sia ꝛ reyna.

Þa munu heyrd verda Ovmrædeleg Dyrleg Ord / sem eingen Manna fær vt talad / þo være þad Cicero, Demostenes edur hinn mesle Mælsku madur a Jördu. Og þad þeir allra vÿsustu Spekingar ꝛ Skarpuitringar hafa ecke kunnad ad grun da nie skynia / þad mun þa sa minste hlutt er af Borgar mönnum þeirrar Himnesku Jerusalem / fullkomlega kuña ad skilia og vttala / so sem DROTTEN talar tia Spamañenum seigande / Eg man gie sa þier heimuglega Fiesiodu / og folgnа Dyrgripe.

Og S. Pall seiger / 1 Corinth. 2. Ad ecke hafe Auga sied / og ecke Eyra heyrt / og ecke sie j Mans Hiarta komed edur Hug / þad Gud hefur sÿnum fyrerbw ed

ed ſem hañ elſka.

Og enn aptur ſeiger Eſaias / ad fra Upphafe Veralldar hafe eingen heyrt / ᵹ ecke nöckud Auga ſied / nema GVD / huad þeim er fyrerbwed ſem til hüs vona / Enn þeſſa ſlijks ganga aller Ogudleger a miſſ / ad eilijfu.

Gud hann vere oſſ til lyſkunſamur / ſo ad vier fra hans Blijda Bleſſuda Aug- lite verdum alldrei ſkilder / Þuiad Fordæmdum er eingen Kuöl ᵹ Pijna ſo þung og ſar / ſo ſem ſu / ad þeir verda ad vera vidſkilder vid Guds Auglit / og ſia þad alldrei ad eilijfu.



# XII.

# Nöckrer Ser-
## monar Heilagra Lærefedra/
### Auguſtini og Bernhardi mieg god-
### er og gagnleger ad leſa.

Bernhardus jn ſuis Meditationibus.

## Sorgarkløgun allra Manna/
### vm Þeirra Synd/ Og Hugleiding
### hins ſeinaſta Doms.

SO miiked ſem abrærer minn ſtundleg-
an og holldlegan Vppruna (ma huör
Madur ſeigia) Þa er eg komen af ſoddan
Forelldrum/ ſem mig giördu Fyrerdæmm
ingar Barn/ fyrr og ædur eñ eg var fædd
ur j Þennan Heim. Þeir voru ſialfer ecke
nema Synd/ Þar fyrer hafa Þeir mig au
man Syndara j Syndeñe gieted og j Þeñ
an Heim bored/ nært mig og vpp aled/
Sialf-

Sialfer hafa þeir aumer vered/ þar fyrer hafa þeir miig eins arman og auman fæddt i þeñan Heim / Af þeim hef eg ecke annad eñ Syndena/Syndena/ og þennan auma arma forgeingelegan Lijkama/ Hañ verd eg ad bera so leinge sem eg life og flyta mier til þeirra sem fyrer Dauden eru burt farner af þessum Heime. Þegar eg skoda þeirra Grafer/ þa fiñ eg ecke añad eñ Mollo og Madka/Ólykt + Andstygd / Huad eg er nu/ þad hafa þeir vered / Og huad þeir nu eru (sem er ecke annad eñ Matur Orma og Madka) þad mun eg verda.

Enn huad er eg ? Eckert annad enn ein Manneskia / af oþeckrar Vökuan og Vessa / a Augabragde/ af Mañlegu Sæde gieten / þar næst med Ope og Grate j þeñan Heim komen / þar ecke er nema Synd og Neyd / Sut + Sorg/ Og sia/ Nu dey eg/ fullur Synda og Lasta/ Sna art ædur langt lijdur/ þa blyt eg ad koma og birtast fyrer þeim aluarlega og stranga Domara Jesu Christo / og giöra Reikningskap fyrer allar mijnar Hugsaner/ Ord og Giörder.

Oþa

Auwij / Vei mier þa aumum ✝ Syn-duzum / þegar sa strange og riettlate Dagur Gudlegs Doms kiemur / Þegar þær Bækurnar verda vpplætnar ✝ vppleſnar / þegar allar mijnar Hugsaner / Ord ✝ Giór der koma j lios / og verda openberar fyrer Gude og óllum hans Heilógum ✝ Vt-uóldum / og þad verdur allt vpp leſed ſim eg hef giórt / Huad mun eg þa taka til Rads? Vtan þad / ad ſtanda þar ✝ hÿ-ma / og ſkamaſt mijn med vondre nagande Samuiſku / ſkialfa ✝ titra / med Sorg og Kuijda / og þa ed fyrſta hugſa vm mijnar margfalldar ✝ otelianlegar Synder ✝ Miſgiórder.

Og þegar þar kiemur / ad ſagt verdur til mijn / Sia þar ſijnan Man / og hans Verk. Jafnſnart munu þa koma j lios og fram fyrer mig allar mijnar Synder og Miſgiórder. Þuiad af ſierlegu Rade og Stickan Guds ſkiedur þad ſo / ad huad huór Madur hefur giórt og ad-hafſt / þút þ er ſkied / med Hugſónū / Ord-um og Verkum / j þeſſu Lijfe / þad mun allt ſaman ſkyndelega og a Augabragde koma j huórs og eins Samuiſku / og fyrer

er öllum Augum augliost vera/eins ꝛ pad være þa nygiórtt.

Þa mun huórs Mans Samuiſka añ ad huórt aſaka hañ eda áfſaka. Og epter þui ſem Samuiſkan er / þa mun huór og eirn dæmdur verda. Ja ad vijſu / þa mun huór og eirn dæma ſig ſialfur / ꝛ huór og eirn vera Domare ſinna Hugreñinga ꝛ Verka. Þa munu allar Hugſaner / óll Ord og Verk fram̃ j lios koma / ꝛ op inber verda fyrer óllum Guds Vtuóldum. Og allt pad huórs vier nu ſkóm̃uſt vor i þeſſum Heimie / ad jata og medkienna / og j Skriftarmálum fram̃ ad bera fyrer Gud og hans Þienara / pad mun þa augliost og opinbert verda fyrer óllum Móñum. Og huad hellſt pad er / yfer huórtu vier nu þeigium / og ſióduř yfer dróguni / ꝛ oſſ nu þiker vænt vm / pad allt mun log ande Elldur brenna og fortæra / ſo þui mun eingen hamlad giera.

Og þeſſ leingur ſem Gud hefur haft Þolenmæde vid oſſ / og hefur beded epter vorre Jdran / Aflæte og Betran vors Ogudlegs Lifnadar / þeſſ hardara og omyſkunſamlegra Dom og Refſing mun

han̄ a oss leggia / ef ad vier forðcktum og i Vind slaum soddan Nad og Polen mæde / ꝫ latum ecke af Syndönum.

Seigdu mier / huar fyrer er vor Gir nd og Astundan ad hirda ad lifa hier lein ge / þar vier giörum alldrei annad enn ad syndga ? Þuiad þess leingur sem vier lif um / þess meir ꝫ framar söfnum vier oss Guds Reide. Daglega Dags eykst þ hid Illa / en̄ þuerrar þad Goda / og þ skier oaflætanlega / huört sem fyrer ossa Fer dum er Lucka eda Motgangur / Og Ma dur veit ecke nær han̄ a ad deyia: Þuiad lijka so sem þad skiedur a Natur tijma / ad ein Stiarna lætur sia sig / enn iafnsna rt a Augabragde huersur hun. Og lijka so sem lijtel Ellds Glod fullsnart slokn ar og verdur ad Ausku / So er Mannsins Lijf fallvallt / ostödugt / og lijdur i burtu og huersur. David lijker þui vid Gras / vid Mollo ꝫ Dupt / vid Blomstur Vall arens / Psalm. 103.

Margur hyxar sier ad lifa leinge hi er i Heime / hugsar ecke annad en̄ ad þad mune so ganga til sem han̄ asetur / tekur sier fyrer Hendur og aformar þad og þ ad

ad giöra og vrietta / Enn so fer / ad Dau
den kiemur fyrer enn hann vill eda ætlar / *
med Harme og Neyd sundur slijtur Sal
* Lijkama huört fra ödru.

Jafnsnart eru þar fyrer hendi Eing*
larner / sem Sælena taka ad sier / * flytia
fyrer Domstol þess hins stranga Domara
Jesu Christi. Og nu þegar framm fyrer
hann koma hennar Vond * ogudleg Verk /
sem hun hefur giört og framed / alla henn
ar Lijfdaga hier j Heime / a medan hun
lifde hier / þa skielfest hun * hrædest / vill
de giarnan verda laus vid þau / bidur um
Frest / þo ei sie nema um stundar saker / ad
hugsa sig um.

Enn þetta vill ei so ganga til / Þui*
ad öll Mannsins Ord / og allar hans Gi*
ner munu þa framm koma persomulega /
syna sig / og seigia. Þu hefur giört oss /
og vier erum af þier drygdar Synder /
Vier erum þau agiætu VERKEN sem
þu giört hefur / Vid þig skulum vier lo*
da / fra þier vilium vier ecke vijkia / Med
þier skulum vier fara fyrer þann stranga
Riettlæta Domara. Þegar þar kiemur /
þa muna Verken huört og eins j liose læ

ta allar Synder / allan Strakskap ꝛ alla Glæpe / og þeim amæla og Saker giefa sem Saknallder eru / og giöra ecke minna wr enn skied og vered hefur. Og þa mun ecke þurfa Vitnanna vid / Verken sialf og Athæfe og Giörder huörs og eins / sem hañ giört og drygdt hefur / mun nog og meir enn nog Vitne vera / huöriũ ꝛ ein-am til Fyrerdæmningar.

Þar næst koma fram Dioflarner / j marguijslegum / ognarlegum / afskapleg-um og hrædelegum Myndum / skie'fa og hræda þa aumu Sal / hripsa hana ꝛ grij pa hid grimlegasta / og draga hana med sier j Helvijtes Elld / Med þui þar er ein-gen sem hialpar.

Þegar su auma sorgfulla Sal sier nu þetta / ꝛ finur / huörsu hñar Augu Ey ru og öll skilningar Vit / Hendur og Fæt ur og aller Lider og Limer / af huörium hun hefur j Lijfenu haft Lyst og Glede og Gaman / til ad drygia Saurlijfe ꝛ ad-rar Synder / skulu þa pijnast og kueliast / Þa mun hun hid fyrsta sia / huar hun er ad komen / og taka til ad hugleida sijna Neyd og Eymd / Og þegar hun sier sig vera

vera nakta / snauda allra godra Verka / ꝫ Truarenar a Christum / þa mun hun ogur lega hrædd og skielfd verda / og af Hiart-ans Hrellingu falla j Aurvilnan.

Og med þui ad hun hefur ædur yfer-giefed Gud / sint ecke vm hann / elskad meir og framar Heim þennan ꝫ Holldsins Girn-der enn Gud / þa mun hun a þeim Tijma og a þeirre Stundu mest a liggur / hrygge lega verda af Gude yfergiefen / og Diöfle-num j Hendur feingen / so ad hun verde pijnd ꝫ kualen j Heluijtis Ellde eilijflega.

Þannen verdur nu Mannsins Sal ad skiliast vid Lijkamann / þa hana minst va-rer / og a þeirre Stundu hun hyggur ecke / Og af storre Neyd / Eymd og Angist / og Hörmung mun hun ecke vita huad hun skal til giöra. Og med þui hun hefur önguꝛ uoglega Assökun / og kann ecke ad forsuara sig vm giörda Glæpe ꝫ Synd-er / þa efast hun / ꝫ tekur til ad ottast ad koma fyrer Guds Dom. Hun mun þa skialfa og titra af Ogn og Hrædsln / ept erkomande Pijsla. Og so sem hun hefur alldrei ædur huxad vm sijna Burtför og Endadag / so fær hun nu ad sia / ad hun

blytur vid Lijkaman ad skilia / ꝛ ad øll
Von leingre Lijfdaga er vte / Þa ed fyrsta
tekur hun til ad hyxa vm sinn Dag / ꝛ sinn
Daudadag / huad hun hefde ætt ad giø-
ra fyrre.

Enn af þui hun hefur ecke giört þetta
adur fyrre / þar fyrer verd: hun framm selld
j eilijfat Kualer / og Pijsler oendanlegar.
Þa mun hun komast ad sannre Raun / vm
þad sem hun hefur ecke viliad trua ꝗdur
hier j Heime / Sem er / Huersu aluarle-
gur og strangur sa Domare er / og ad fy
rer hønum duger eingen Afsøkun. Og
þo hun hafe ecke framed viranlegar Syn
der / þa hrædest hun samt þær ovitanle-
gu / huoriar þa munu j lios koma fyrer
þann stranga Domara / Þa vex Neyd ꝛ
Angist / þa vex Otte og Hrædsla meir ꝛ
meir / af þui ad Sælen hefur ecke kunnad
ad lifa Syndlaust / Þuiad jafnuel þ sem
vier høfum ætlad eingen Synd vera mun
de / helldur gott Verk / þa er þad ecke synd
laust / ef ad sa strange og Riettlæte Dom-
are Drottenn vill þar med epter Riettem-
um døma / ꝛ ecke lata Nad ꝛ Mylskun
meira

meira rada.

Þuiad huór kann noglega ad hugſa eda merkia/huad margt illt/huad marg ar og otelianlegar Synder vier giórum Daglega/a huóriu Augabragde/og huad margt ✝ miked gott vier lætum ogiórt ✝ Þuiad ſo ſtor og ill Synd ſem þad er/ ef vier giórum illt/So ſtor Synd er þ/ ef vier giórum ecke þad goda/ þ vier gi etum giórt.

Þar ber oſſ ad hugleida/huór Vode þar er á ferdum/ef ad vier ſtundum ecke ad gióra hid goda/med Ordum og Ver kum/helldur lætum vorar Hugreníngar huarfla til onytſamlegra og ſkadſamra Hluta:

Þar fyrer/ Þegar Madur ſkal fara burtu hiedan/ þa plaga hañ hans Hugs aner/og hañ er hræddur vm ſig/ Þuiad þo hañ vite þad/ad hañ hafe ecke gieys mt ad gióra þad Gude vel lijkar/þa ma hann þo hræddur vera vegna þeirra Synda ſem hann ecke af veit/nie hugar.

# XIII.

# Huørsu dyrmæt og Vegleg Mañsins Sal er fyrer Gude.

O mijn Sal / þu sem ert skópud ept er Guds Mynd og Bilæte / og ert nu Gu de trulofud j Truñe / + hefur feinged visst an Pant Gudlegs Kiærleika til þijn / sem er Heilagur Ande / Þu sem ad ert endurley st m3 þui dyrmæta Jesu Christi Blode / Þu sem asamt med Einglónum ert fyrer hugud til eilijfrar Dyrdar / og beñar ætt ad verda Hluttakare / þu sem ad vera ætt Erfinge Guds Andæfa + hans Mijsk unar / og ert af Gude skópud med Skyne og skilningar Vite / Huad hefur þu ad gi óra med Hollded ? Af huóriu og med hu óriu þu verdur so margt ad lijda. Þuiad sia þu / Holldsins + vondra Synda Girn da verdur þu ad giallda / huóriar þu hef ur þo ecke drygt / og hlytur so ad taka vppa þig annans Synder sem þu hefur ecke framed. Þijn Riettuijse er siñ obreint Fat / + þu ert orden med óllu einskis nyt Esa. 64. Cap

Villtu nu vita / mijn Sal / huad fyr er

er Vln og Lagsman þu hefur/ epter huort kum þu lætur so misked/ þa vil eg seigia þier þad/ Holldid er ecke annad enn o-hreint Blod/ Quort ad j Modurennar Lyþe (þa Maduren er gieten) lætur aþ ad renna/ og verdur ad Hollde. Þad er Heiduren/ þad er Somen og þegurdar Pryden Holldsins/ og er miøg veyk sna-ud og forgeingeleg/ Og litlu sijdar verd-ur hun eitt aumt jlla luktande Hræ og Madka Matur/ Og huórsu sem eirn hñ pryder sig og prialar/ þa er hañ þo ecke annad eñ Holld.

Ef þu giæter vel og vandlega ad þui/ huad vtgeingur af þijnum Munne og Nøsum/ ✝ annarstadar af þijnum Lijkama/ þa er þad ecke añad enn Saurinde og O þeckt/ huória þu ecke lijdur nie vera lætur a þijnum Klædum/ nie añar stadar/ Og ecke a Jórduñe eda a Golfe-nu/ fyrer þijnum Augum/ helldur lætur þu þad jafnsnart burt þurkast eda med Fotum trodast.

Og huórsu er mógulegt alla Eymd Neyd Mannlegs Holldz vpp ad telia ?

 Huer

Huórſu Madurenn er j Syndónum ꝛ j þui
enu vonda allur vaſen/ Huad margt jllt
hañ verdur Dagleꝫa ad lijda/ huórſu hñ
verdur af Dióflenum og vondum Girnd-
um yfer fallen/ þiadr ꝛ plagadur. Jtm/
Huórſu hann er med óllu hneigdur ei til
hins Goda/ helldur til alls hins Vonda.

Vegna Holldſins er Madurenn Hiego
mannum vndergiefen/ og hónum jafn og
lijkur orden/ Pſalm: 143. Af Holldenu
hafa vondar ſyndſamlegar Girnder/ og
óll jll Verk ſiñ Vppruna/ Og þeſſar jll-
ar Girnder/ hafa Mañen ſo fióttrad og
fangad/ad hañ kañ ecke añad eñ ad ſynd
ga ꝛ vera Hiegomlegur.

Þar fyrer/ þu aumr Madr/er Rad
ad þu vakter þig vel/giæter ad. og Hug-
leider/ huad þu varſt ædur eñ þu komſt j
þennan Heim/Huad þu ert nu / a medañ
þu hier lifer/ Huad þu verda munt epter
Daudan. Sañlega ertu ecke af ódru enn
ſaurugu Sæde/ huórt ad fyrer Mónnum
er O heckt og Andſtygd/ þu heſur j Med
urlijfe vaſen vered j litlum og veykum
Skinnkufle/ Af ohreinu Blode hefur þu
hafr þijna Næring j Modurlijfe/ allt til
þijna

þijns Fædingar tijma/Klæde og Kyrtell þiñ hefur vered ohreiñ Sigurkufl / Þetta var Skraut þitt ý Skart allt/ þa þu komst j Heimen/ Þo hugsar þu ecke vm þetta/ hvörsu Hingadkoma þijn hefur vered litelmotleg/ aum og andstyggeleg. Enn þinn Frijdleikur og Fegurdar Æska Vinatta Veralldar/Gots og Rijkdomur hindra og hamla/ad þu þecker ecke vpp runa þiñ/ og kant ecke ad hugsa vm hñ.

Maduren er ecke annad eñ olyckrände Sæde/ Skarnseckur/ Madkamatur. Þegar þu ert nu daudur og liggur þar ý frænar/ þa verdur ecke vr þier añad enn Madkar og Ormar/ med Olykt og Andstygd.

Þad seigia lærder Menn/med Sañendum/ ad af Hræe Leonsins/ lyka eirnen af Hræe Nautsins fædest Byflugur/ og af Hræe Asna og Hesta kome Hestflugur/ af rotnum Fiske/ Fiskeflugur/enn af þeim Merg sem er j Mañsins Hrygg verde Höggormur/til Miñingar og Vitnis/ vm Fall vorra fyrstu Forelldra/ sem skiede fyrer Slægd og Hreckuyse hess höfud Höggorms Diöfulsins.

Hvar fyrer drambar þu þig þa/med

þui þu heyrer huad þu hefur vered/ ádur enn þu komst j þeñan Heim/ og huórsu ad þitt Lijf er ecke annad enn Eymd og Synd/ Og epter Lijfed jnnan skams tij-ma þa hlytur þu ad verda Molld og Madka matur?

Huar af tekur þu þinn Metnad/ þu Molld og Aska? Þu sem j Syndeñe ert gieten/ huórs Lijf ad ecke er nema Sorg og Syndareñar Laun/ og vm sijder verd ur þu ad deyia med Eymd og Harmkuæl um? Þar fyrer seige eg eñ/ Huar af dr-ambar þu og dreissar? J Syndeñe ertu gieten/ Med Sorg og Smt ertu fæddur/ Þitt Lijf ma ecke Lijf heita/ helldur Eymd/ Motgangur/ Olucka/ Plaga/ og Synda refsing/ ꝛ ad sijdustu verdur þu ad fara j Burt ꝛ deyia.

Huar fyrer skryder þu og pryder þiñ Lijkama/ med Gulle/ Gimsteinum/ ꝛ ødr-ru forkostulegu Skarte/ og Skraute/ þar hañ jnnan skams Tijma verdur af Mód-kum og Ormum vppeten/ Eñ Sal þij-na (Huór ed koma hlytur fyrer Gud og hans Heilaga Eingla) hana skryder þu ecke nie pryder med neinū godū Verkum?

Huar

Hvar fyrer hefur þu Sorg og Ahyggiu so stora fyrer þijnum Lijkama og Hollo sina Vellystingum ? enn þar þvert a moote / hvar þu lijted eda eckert vm þijna Sal. Stor Osome er þad / ad Ambattenn sie Hwsfruen / og Hwsfruen sie Ambattenn / ad Hwsfruen þræle + þione enn Ambatten sie jdiulaus / og regere og rade öllu / Þuiad sannarlega er öll Veröllð en einskis verd / + ecke ackrande hia einaste eirne Mans Salu: Þuiad DROTTIIN Gud hefur sitt Lijf vtgiefed / ecke fyrer Veröllðena / helldur fyrer Mannanna Saler.

Þar fyrer ber þier ad hafa þijna Sal j Heidre / akta hana mijkels og virda / med þui ad eingen ( nema Christur sialfur ) hefur hana kunnad ad endurleysa / med sijnu dyrmæta Blode.

Huad faheyrd Dæme eru þad / + furdanleg Vmskipte / ad þu so ovirder + for aktar þijna eigen Sal / þann halleita Dyrgrip / + skeyter ecke vm hana / huörnen hun fer / vel eda jlla ? Enn eilijfur Guds Sonur Jesus Christur / j Skaute sijns Himneska Födurs / hann hefur aktad hana so mijke-

mÿkels/ad hañ yfergaf sitt Guddomlega Dyrdarlega/Konunglega Hasæte/ og er komen hier a Jördena/ so ad hann leyste hana fra Vallde Diöfulsins: Hvlad hegar hañ sa/ huörsu ad hun var fiötrud y fangen j Syndanna Böndum/og ætte ad seliast Diöflenum j Hendur/ til eilÿfra Helviijskra Kuala og Pÿsla/ þa sa hann aumur a heñe/og kiende j Brioste vm hana/med gratande Tarum/Og hann ecke alleinasta griet af Hiartans Medaumkan og Samharme/ Helldur liet hañ Lÿflata sig/ so ad hann frelste hana med sijnu dyrmæta Blode. Aspice mortalis, pro te datur hostia talis, Sia þu daudlegur Madur/Huadmæt y merkeleg þÿn Sæl er fyrer Gude/ med þui ad soddan Forn og Offur var fyrer hana vtgiefed/ Hugsa þu vm þad/huörsu særd og lemstrud hun hefur vered/ad ef hun skyllde læknud verda y heilbrigd/af sijnum banuænum Sarum/ þa hlaut Christur ad lata særa sig og pÿna. Þuiad hefde hennar Sar og Vnder ecke vered so storar og daudlegar/ ecke til eilÿfs Dauda/ þa hefde vissulega Christi ei daed fyrer hana. Þar fyrer þu Mad

Madur / fyrerlijt ecke þijna Sal / Akta hana ecke so lijtels / med þui ad Almatt-ugur eilijfur allra hæste Gud hefur so hi-artanlega sied a umur a henne: Hafe hñ heilum Tarum grated hennar vegna / þa lat þier ecke þikia mijked fyrer þui / ad grata þijnar Synder / med David / Psal. 6. Hañ hefur lided fyrer þig sara Pijsl + Pijnu / Hann hefur sijnu Blode fyrer þig vthellt / Oh / skyllder þu þa ecke lijda nockud af þijnum jllum Girndum og Til-hneigingum? Far ecke epter þui sem þitt Holld og Blod hafa vill / helldur hugsa þu huad þinne Aund og Salu er gagnle-gt / þa muntu med Glede og godre Sam uisku koma fraiñ fyrer Gud þiñ Skapa-ra + Saluhialpara.

Enn ef þier þiker mijked fyrer þessu og seiger / Jeg kann ecke ad yfergiefa Hei men og hans Athæfe / Jeg giet ecke hat-ad mitt eiged Holld / so ad eg giöre ecke epter þess Villd + Vilia / + ct.

Þa bid eg / Seigdu mier / Huar eru nu þeir / sem Heimen hafa meir og fram-ar aktad og elskad enn Gud / þeir ed fyrer stuttum Tijma / lifdu j Glaum og Glede eins

eins og vier ? Sannlega / þu ser ecke nöckurn hlut vera epter af þm / nema Molld og Dupt / Nidl ag Madka / Glætiu vel og grandvarlega ad / huad þeir eru nu / edur huad þeir voru ædur . Þeir hafa ver ed Menn eins og þu / Þeir hafa eted + drucked / og alla Daga sijna haft Gaman og Glede / Eñ a Augabragde eru þeir farner ofan j Vijte.

Hier j Heimie verdur þeirra Holld j Gröfeñe af Möökum og Ormum eted / Enn þar nidre / j Heluijte / verda þeirra Saler / til Heluijtis Ellds geymdar / og varðveittar / til þess ad Sal + Lijkame koma saman aptur / og hliota þau þa bæde sömun vegna drygdra Synda + Glæpa ad kastast j eilijfan Heluijtis Elld. Þuiad so sem þau hafa bæde syndgad / og framed Synder og Glæpe / so hliota þau bæde eins Pijsl + Pijnu ad lijda.

Huört Gagn hafa þau nu þa af sijnum Hiegoma ? Huad hialpar þeim þa stundleg Glede eda Gaman ? Huad stodar þa Heimsins Magt og Valld ? Huad gagna þa Sinder + Vellystingar Hollds jns / Gots og Gardar / Gull og Gersemar

ar/Frændur og Viner? Huar er nu þeirra Skiemtan/Hlatur og Gaman? Eda þeirra Dramb + Metnadur?

Sia þu/ Huórsu stora Hrygd þeir hrept hafa epter stuttan Fógnud/ mykla Eymd epter litla Vellystiing/ Ja/ ad vÿsu/wr þeim fanyta Fógnude eru þr fallner eitt hrædelegt Fall/ sem er/ j eilijfa Sorg og oendanlegar Pijsler.

Enn huad yfer þa er komed/ þad kañ + fullsnart ad henda þig/ Af þui þu ert so vel sem þeir/ecke annad enn Molld og Duft. Jórd ertu/ og af Jórdunne lifer þu/ og þegar þiñ seinaste Dagur kiemr/ huór ed a Augabrrgde koma kañ/. Ja/ kañ vera hañ sie fyrer Dyrum/ + kome j Dag eda a Morgun/ + hlytur þu þa ad verda ad Jórdu aptur. Þaiad þad er vÿst/ þu hlytur ad deyia/ enn a huórre Stundu/ huar/eda med huórium hætte/ þad er þier ovÿst. Dauden situr vm þig alla Tijma/ Hann fylger þier a epter so sem Skuggen/ huar hellst þu ert. Og so framt sem þu villt þiggia Rad/ þa bw þu þig þar til/og vert vid bwen/ ad þu alla Daga + Stunder siert til reidu/

þa

